Þeir ſvonefndu

# Kroſs-Skóla Sálmar

um kroſs og mótlætingar Guds barna í heimi þeſsum

af

Jóni sál. Einarssyni,
Rector vid Hóla ſkóla.

Kaupmannahöfn, 1834.
Prentadir í Popps prentſmidju.

Veledla Höfdíngs Matróna

## Frú Gudrídur Gísladóttir

eckja biskupsins Mag. Þórdar sál. Þorlákssonar!

---

Svo segir Sýrach í 2 Kap. v. 1: Barn mitt! viljir þú Guds þjónustu-madur vera, þá bú þig vid freistninni. Hvør Guds Anda ord, fyrir þess vísa manns munn og hjarta mælt og uppþenkt, óskandi væri, ad vér, kristnir menn, sem allir erum í þeirri heilogu vatns-skírn inutekuir í sáttmála og samkundu vors sigur-hofdíngja Jesú strídaudi kristni hér á jordunni, létum oss jafnan ógleymd í minni og munni vaka og vera. En sokum þess, ad hér vill hjá morgum hvørjum, einkum mér og mínum líkum (ef nockrir eru) næsta mikid áfátt verda, þá hefur vor dýrdarligi sigur-herra Jesús látid fyrir sína þénara, spá-mennina, postulana, og á sídari heimsins oldrum, forstjóra og kénnendur sinnar kristni, minna oss á þetta hid sama, og enn nú allt til þessa tíma. Medal allra þeirra var sá hálærdi og háttupplýsti mann, Doct. Valentínus Wudríanus, sem samsett hefur og útgánga látid þá ágætu bók, sem hann kallar Scholam crucis et tesseram Christianismi, þad er: Skóla krossins og kénni-teikn Kristinndómsins: í hverri hann, med huggun-arríkum lærdómum og lærdóms-ríkum huggunum, sérhvorn kristinn mann uppvekur og áminnir til fyrr-tédra Sýrachs ráda. Ut af þessari hans bók hefi eg á þessum mínum úngu aldurs-árum samantekid nockrar saung-vísur; svo ad hvør ein skyldi andsvara sérhvørjum Kapitula nefndrar bókar, og þad, sjálfum mér bædi til

nákvæmligrar og svo nytsamligrar eptirtektar, og ei síður öðrum, sem það sjá og heyra vildu, til þénustu og uppvakníngar: í vissri von, að allir þeir muni sérhvað nýtiligt hér inni eigna og þakka allsvoldugum Guði; enn hitt, sem mislíkar, eigna og kenna úngæði mínu og aldurs-fæði. En það eg, vel-edla Matróna! dyrfist að bjóða yður þetta mitt fyrsta úngdóms ára kvak, þartil knýa mig sérdeilis tvær orðsakir: sú eina áhrærir sjálfrar yðar persónu, hin önnur mig. Í fyrstu vildi eg *yðar høfðínglígu kvenn-prýði* þetta sýna og segja, af því að þér svo erud lángvaranliga uppmentaðar í Kross-Skóla yðar Lausnara Jesú Krists, að þér framar øðrum sjáið hvað um þann hulda og heilaga krossins leyndardóm sé rétt mælt eður ekki. Í øðru lagi vilda eg gjarnan með tileinkan þessara saung-vísna til *yðar høfðínglígu kvenn-prýði* sjálfan mig áminnt hafa þær miklu og margføldu velgjørðir, sem eg, þeirra alls óverðugur, þeigið hefi af *yður*, og *yðar* æru-göfugu nánustu ást-mönnum, lífs sem liðnum, hvørjum eg bæði skal og skyldugur er af einlægum huga fyrir hvørjum manni að hrósa. Treysti eg nú *yðar dygða-edla gøfuglyndi*, þessa mína djørfúng, svo sem einlægliga meinta, vel að upptaka. Framar þessu óska eg af øllu hjarta, *yður* og øllum *yðar* æru-gøfugum ást-vinum, alls fagnaðar og ársældar, lífs og sálar, svo vel á þessu nýrunna ári sem øllum eptirkomandi æfi og hérvistarstundum, og það í nafni vors himneska Immanúelis Jesú Krists.

Skrifað í Skálholti, d. 1 Janúarii Anno 1698.

Yðar vel-edla kvenn-prýðis
skyldugur þénari
**Jón Einarsson.**

# 1. Sálmur.

Allir þeir, sem gudliga vilja lifa í Jesú Christó, hljóta hørmúng og offókn ad líða.

Lag: Jesú! þín minníng mjøg sæt er.

Í þínu nafni, ó Jesú! Andligann saung eg byrja nú, Upplýsíng Heilags Anda þíns Aformid styrki hjarta míns.

2. A þad dýrmætis edla hnoss, Utvaldra Jesú barna kross, Hugur er nú ad minnast mèr, Minn Gud! til lofs og æru þér.

3. O Jesú! lát þú anda þinn Upplýsa hug og skilníng minn, Svo munnur, hond og hjartad mitt Hondli, sem ber, um nafnid þitt.

4. Uppá þad traust vil eg, mín sál! Ahuga krossins leyndarmál, Því heimi þessum er hulid fé, Helgra Guds barna arfskipte.

5. Í fyrstu vel þér vita ber, Viljir þú Drottni offra þér, Ad ollum þeim Jesúm elska af rót, Allt verdur hér ad gánga í mót.

6. Allskyns hormúngar, eymd og naud, Eru kristinna dagligt braud; Allskonar kross og ánauder, Einsog þinn skuggi, fylgja þér.

7. Og sem þinn skuggi, ad því gá, Aldrei kann hér ad skiljast frá, Krofsinn ad flýa eins hér er Omoguligt í heimi hér.

8. Alla þá, sem Gud elskar vel, Adur sem kéndi Raphael, J þessu lífi hyrtir hann, Hér fyrir komast enginn vann.

9. En hvarfyrir mun Gud hryggja þá, Hans vegum sem þó gánga á, En ógudligt fólk, sem elskar last, Ei lætur hann hér svo reynast.

10. Af því ad Gædskan ein og þrenn Utvaldi svoddan raunamenn, Sem Christó líkjast í kvol-inni, Og krýnist sídar í dýrdinni.

11. Andligir steinar erum vér, Undir krofs-inum fágader, Svo hendtugir finnumst himnum á Himneskri dýrdarborg ad ná.

12. Komir þú hér í harmabad, Huxa máttu í sannleik þad, Kénnitei kn þvílikt krofsinn er, Sem Christó Jesú þig samlíker.

13. Viljir þú eptir eymdardal Erfa himnesk-ann dýrdarsal, Med Guds Syni fyrst þá gánga ber, Gégnum veraldar mann-rauner.

14. Elskendur sína optast nær Agar Drottinn og tídum slær, Svo þeir síg heldur vari vid Ver-aldarinnar glæpa síd.

15. Þá Jónas gjordi Gudi á mót, Greip hann ad bragdi hefndin fljót, Sem hann leiddi á lífsins veg; Læri af þessu dæmi eg:

16. Mín synd, mín synd, sú orsok er, Alla

hormúng sem bakar mér, Hér fyrir, Drottinn! hyrtir mig Hjarta=gœdska þín fødurlig.

17. O Gud! sem hefir áskamtad Allra hormúnga tíd og stad, Séf þú oss nád, svo gétum vér Gengid Lausnarans feril hér.

## 2. Sálmur.

Sannkristin Gudsbørn eiga ad gledjast vid kross Drottins, en hryggjast ecki.

Lag: Heidrum vér Gud af hug og sál.

Gœt þú, mín sál! ad gagni því, Gudsborn sem hafa raunum í, Athuga líka allt þad rétt, Er þér verdur hér fyrirsett, Örvínglast muntu ecki þá Undir krossinum, heldur fá Huggun, sem nú ei huxast má.

2. Kristinna akur krossinn er, Kjarna ilmsœtann særir þér, Sáir þú tídt med tárum þann, Tignar ávoxt þá géfur hann, Uppskéran heitir eylíf víst, Ef þú trúir á Jesum Krist, Hér fœr þú meir enn hafdir mist.

3. Ef þú lídur í heimi hér, Hatur, mótgáng og ofsókner, Þessu mun verda endir á, Uppskéru=tímann þá menn sjá; Þeim, sem hér lídu sorg og sár, Samfagna mun þá hópur klár, Lofandi Gud um eylíf ár.

4. Eg held ad krossinn allri sé Audlegd ver=aldar mœtare, Fyrst hann Guds bornum útveg=

ar Arftöku sælu himneskrar; Jesú, ljúfi Lausnari minn! Lof sé þér fyrir krossinn þinn, Hvorn eg mér næsta hollann finn.

5. Í krossskóla Guðs ef kémstu hér, Kristin sála! þá hura ber Heim í himneskann sæluses, Svo muntu verða styrk og hress, Og umbera heimsins alla hrygð, Í hvørskyns neyð og rauna stygð Huggaðu þig við himna bygð.

6. Fullþackað aldrei fáum vér Fyrir þann kross, sem reynum hér, Sú gáfa mér meir virðist verð, Enn vegsemd gjorvoll hér á jorð, Þegar veröld eg vík í frá, Vegsemd eylífa kann eg fá, Krossinn því ollu orka má.

7. Krossins bikar ef beiskur er, Besta ráð vil eg géfa þér, Varpaðu í hann tignartré, Tak það sama hjá skriftinne, Hvorju þá grein þig girna kann, Gléð með henni þinn innra mann, Engin freisting þá fellir hann.

8. Aldrei finnst hér svo mikið mein, Mótgángur, píst né hormúng nein, Að Helgur Andi géti ei græðt, Og gjorvalla mæðu endurbætt, En að ná svoddan huggun hans, Hjartnæmust bænin er til sanns Eitt það dýrasta medal manns.

9. Augunum mæni eg uppá þig, Ó Jesú! kénn í brjósti um mig, Endurnæríngar ljúfust lind! Líkna mér þinni sképnu-kind; Géf oss að heyja heppið stríð! Hjálpa oss síðar, þrenníng blíð! Að sjá þig eylífðar alla tíð! Amen!

## 3. Sálmur.

**Um þau nøfn, sem krossinn hefir í heilagri ritningu.**

Lag: Guði lof skal ønd mín inna.

Minstu, mín sál! hvað sagði Sonur Guðs Jesús, Herra þinn, Heilræði holl þeim lagði, Sem hyra að vanda lifnað sinn: Hvor fús mér fylgja vildi, Forláti elsku þá, Sem hann ei safna skyldi, (Sál mín! að þessu gá), Krossferil feti réttann Í fullhuga eptir mér, Hvorn Guð mun gjora léttann, Gángi hinn rètt sem ber.

2. Hvað sem til hér kann falla Heiminum í, á móti oss, Veikleik og vanmátt allan Vor Drottinn Jesús nefnir kross; Slíkt er huggunar heiti, Að heimsins bøl (þó lítið) Líkist að sínu leiti Lausnarans krossburð við; En Kristur á krossi píndur Kórónu dýrðar vann, Síðan með sigri krýndur Sáluhjálp øllum fann.

3. Þó sárt þyki sorgin stínga, Sannkristinn maður! gæt að þar, Aldrei kann þig að þvínga Þvílík hormúng, sem Jesús bar, Þegar á krossi kvaldist, Kaupandi úr dauða þig, Frá øngvu ángri taldist Ástin hans hjartanlig, Veit því best vansemd þína, Og vill henni svipta frá, Þvíað velþóknan sína Þér hefir Jesús á.

4. Job mátti einn svoddan sanna, Sárum krossi er nístur var, Hann misti góts og granna,

Gaf þó Drottni eitt hógvært svar, Pareptir þúngum sárum Pjádist hans veika hold, Tapadi kjörum klárum, Klæddi sig dupti og mold, Astir og adstod sinna All-litla finna réd, Ogndlig eiginkvinna Angradi hann þarmed.

5. Angist og eymd margfalda Opt kallar Davíd mótgáng sinn, Pad skaltu þýda og halda Þreingíng, sem tekur hjartad inn, Sem Frelsarinn fékk ad reyna, Fridkaupandi sinn lýd, Fyrst þolgædis þel hans hreina Þreytt hefir sama strid, Sem þig, mín sála! pínir, Sízt mun hann gleyma þér, Því hjálp og hjástod sýnir Hvorjum sem þjádur er.

6. Fær og freistínga heiti Frelsarans barna mótlætíng, Vid hvorjar þó hér þreyti, Þau fá góda sigurvinníng, Ef þau í ákéfd strída, Í sanni von og trú, Med þolinmædi lída Mótgáng, sem finna nú; Peirra þælgædid hreina Þú skyldir læra med, En veikligt þeim vonin beina, Vanmátt þinn færdu séd.

7. Svo skaltu, sál mín! geyma Svoddan krossnofn í hjarta þér, En þeim aldregi gleyma; Einneginn máttu læra hér: Ad freistíng, sem til kan falla, Fáheyrt er ecki neitt, Því Gud fer eins med alla, Ut sem hann hefir leidt Af heims ánaudar landi Í sinn hormúnga rann, Slíkt er Guds gódur vandi, Því Gud vill þig hjálpligann.

8. Himneski hjartans-Fadir! Hjálp oss, þá krossinn liggur á, Svo undir hann gaungum

gladir, Guddóms kraptur þinn sé oss hjá; Fyrir Krists kvöl og pínu Kvalrædi frá oss snú, Gædsk-unnar þeli þínu Þvíad vér treystum nú; Lát oss stöduga standa, Stjórna oss, ó Fadir kær! Med upplýsing Heilags Anda, Amen! þess bidjum vær.

## 4. Sálmur.

Krossinn skédur ecki af hendíngu neinni, heldur kémur hann af vilja og rádi lifanda Guds.

Lag: Mitt hjarta hvartil hryggist þú.

Hugleid, mín sál! í hreinni trú, Hvadan ad kém-ur þjáníng sú, Er þig svo ángrar tídt Heimsins barna hjal fánýtt, Hérum skalt þú akta þá lítt.

2. Oþolinmódur margur hver Moglar og segir: Drottinn ber Umhyggju öngva um mig, Fyrst mannraun heimsins margfaldlig Mót hans barni upphvetur sig.

3. Hinir segja ad heimurinn sé Helzta orsök í neydinne, Hvor sig því hati vest, Ad þeir hafi hjartad fest Vid himna-Gud, og dýrki hann best.

4. En þú skalt vita, ad mótgángsmein, Mildi og gædska Drottins hrein Tilbýr og tilskickar; Allar heimsins hormúngar Af hendi Drottins eru sendar.

5. Mogla því ecki Gudi í gégn, Geist þó hér dynji mótgángs regn, Þad heldur þenkja ber, Ad margfaldt synda-safn þitt hér Svoddan krossburd afrekar þér.

6. Hvonær sem Gud vill hyrta þig, Heimurinn allur venda síg Þángad, sem þenkir hann, Morg því hafa medol vann, Sem madurinn ecki hura kann.

7. Hura þá sízt ad Herra sá Hormúng þína ei kunni sjá, Er fuglana forsorgar, Því ætlar hann þig til upphefdar Ædra lífs og farsældar.

8. Þarfyrir þó þig hýrti hann, Huradu aldrei, vesæll mann! Ad mýa hans medolum, Því skaparinn stjórnar stépnunum, Skuldin oll er hjá þér sjálfum.

9. Hvorki Djofull né heimurinn, Himin, lopt, sjórinn eda menn Þér annars afla mein, Því eins þér Drottins hondin hrein Heldur og. sínum augnastein.

10. Gud (sagdi Jóseph) gjordi þad, Gaf mig híngad í þenna stad, Ad frelstir yrdud þér; Þú mátt, sál mín! heyra hér, Hvorjum krossinn eigna þér ber.

11. Job þegar misti allan aud, Ecki formælti hann þeirri naud, Heldur á hinn veg tér: Þad tók Gud, sem gaf hann mér, Gudi einum vegsemdin ber.

12. Þarfyrir vertu vel til frids, Væntu af Drottni hjálparlids, Sem þessir kénna þér; Segdu: Drottni dýrdin ber! Dásamligt því nafnid hans er.

13. Herra Jesú! eg þacka þér Þann kross þú hefir sendann mér; Þar treysti eg efleust á, Ad gott allt kémur gódum frá, Gled eg mig vid íhugan þá.

14. Þó mig nú sorgin særi hér, Sig gledur andi minn í þér, Svo því hann segja má: Mínu ángri sviptir sá, Er sendi þad, og lagdi mig á.

15. Veit oss, Jesú! þá vitsmuni, Ad vona í øllum krossburdi Uppá almáttinn þinn; Hjálpa oss sídar, Herra minn! Til himnaríkis fagnadar inn! Amen!

## 5. Sálmur.

**Krossinn er ecki reiditeikn, heldur elsku og nádar merki lifanda Guds.**

*Lag: Fadir vor! sem á himnum ert.*

Kristin sála! hér kom og sjá, Krossinn þér leggur Gud uppá Af elsku sinni, í ást og trú, Ecki reidi, sem meinar þú, Miskun hans til þín meiri er, Mótgáng þegar hann sendir þér.

2. Oss má virdast hann ecki þá, Englunum meir, sem hér vill þjá, Med því hann vill ad verdi þeir Vegligri lángtum sídar meir; Aldrei mun kvøl sú koma uppá, Sem kunni oss Gudi ad skilja frá.

3. Utvaldra manna kvøl og kross Kallast má eitt þad dýrsta hnoss, Af sjálfum Gudi ástamtad, Adur enn hafdi hann grundvallad Allra hlutanna ástædi, O, þad dýrmæta hlutskipti.

4. Allt hvad sem helzt þig ángrar hér, I Drottins hønd þig tilreidir, Þess meir sem bolid þrengir þér, Þess nálægari Drottinn er, Adam gamli og allt hans lid Afmáist, hinn svo lifni vid.

5. Hvorjum sem Drottins hønd er reid, Hér

finnur varla mótgángs neyd, En alla þá, sem Gud elska réd, Elur hann sorgarbraudi med; Ef kénnir þú aldrei krossins teikn, Kalla má Drottins reiditeikn.

6. Davíd kannast vid sagdann sid, Segist því gledjast krossinn vid; Fyrir gódu vard honum Guds refsíng, Guds því hún kéndi réttlætíng; Packlætis mesta orvan er, Ef Drottinn vill þig reyna hér.

7, Þá eg hér reyni mein og mód, Míns eru Jesú dæmin gód, Honum (þad vottar heilög skrá) Hafdi Fadirinn þócknan á; Samt reyndi hann þad mótgángs mein, Meiri finnst ecki hörmúng nein.

8. Augur og sorg um æfi ber Einn og sérhvor, sem Guds barn er; Eylífdin gjörir enda á því, Upprennur gledin ferst og ný, Hjá sínum Gudi um eylíf ár Utvaldra fagnar hópur klár.

9. Minn Jesú! þú ad sönnu sér Serhverja neyd, sem reynum vér, Vér kyssum þína heilla hönd, Hönd þá, sem græðir meinin vond; Vöndur þinn, Herra! komi oss kær, Kærleika þinn svo reynum vær! Amen!

## 6. Sálmur.

### Um þrefaldann krossskóla Drottins.

Lag; Herra Gud skapad hefir jörd.

Kom hér, mín sál! og kynntu þér Krossskóla Drottins þrjá, Í hvörjum hann lætur læra af sér Lífsreglu holla þá, Sem honum fylgja í fastri trú, Frædíng himneska nemur þú, Ef blífur honum hjá.

2. Typtunarskóli Drottins dýr Deydir þitt blód

og hold, Hann sem bar agast, um sá flýr Eylíf synd-anna gjöld. Reynslusköli Guds annar er, Í hvör-jum von og trú í þér Prófar hans miskun mild.

3. Pridji hans sköli þýngstur er, Þann hafa reyndann senn, Af þessum heimi útleidder Allir Guds píslarmenn. Sál mín! nú skulu þessir þrír Þér kénna, hvörsu ad gott med býr, Þó Drottinn agi oss enn.

4. Andvarp hjartans og ydran med Utpressar Drottins hönd, Og þeim, sem hafdi gálaust géd, Géfa kann hrelda önd, Því þessir skölar Skaparans Skipta um edli syndugs manns, Þó typtan vird-ist vond.

5. Guds hulinn visdóm vita fær Vel hvor sig ydkar þar, Þann sem veraldar skynsemd skær Skildi fyer ecki par, Lífgar oss svo sá líknarkross, Lifir þá Gud og býr í oss, Lifum svo lidnir vær.

6. Silfrid í jördu saurugt var, Sem þó í eldi er hreint, Ef elds vid píslir eylífar Oss skal ei verda meint, A ödrum ofni þorf er þa, Því nafni krossinn heita má, An hans er allt offeint.

7. Lausnara þínum ad líkjast hér, Lof er þér allra mest, Í vellysting þó varla sker, Vinnur þad kross-inn best; Davíd í útlegd ordti ljód, En sem hann kom og stýrdi þjód Hendtu hann verkin vest.

8. Ef læknarinn ecki veikum vill Vidleitni sína tjá, Mesta skadrædis merki ill, Mega þad allir sjá, Af því hann treystir ecki á sig, Eins þegar krossinn fordast þig, Veik er lífs von þér á.

9. Heims eptirlæti, yndi og ró Allmarga hefir deydt, Og þann sem í því útaf dó Arfvon himneskri sneidt; En Guðsbarna sorg eg sæla tel, Sálina hún kann að gledja vel, Þó holdinu þyki leidt.

10. Kross er manndygda módir hrein, Meistari spekinnar, Vegferdar leid til lífsins bein, Lilja Paradísar, Morgunstjarna hýr hann er þér, Huggunarsól á eptir fer Allskyns unadsemdar.

11. O! látum oss þá læra hér Að lifa í skóla þeim, Alblómgada sem oss gjörer, Einsog þann meira heim, Ylmandi jurtum allskonar, Að dýrdar kórónu himneskrar Odlumst í odrum heim.

12. Fagnandi, sál mín! fagnar þér, Frelsarinn Jesú trúr! Í sællri-von fyrirsek eg mér Að sól renni upp eptir skúr; Veit mér að ætíð voni eg þín, Vel muntu, sálarheillin mín! Frelsa mig eymdum úr! Amen!

## 7. Sálmur.

*Í vorum krossi skulum vér fyrst bidja um fyrirgéfning vorra synda, sem eru hans helzta orsøk.*

Lag: Hædsti Gud Herra mildi.

Efni og orsök mesta Allrar mótlætíngar Er fremferdid vort hid versta, Vér skyldum gá að þar; Girnumst fyrst grida að leita Gudi eylífum hjá, Oss mun hann ecki neita; Angrid mótlætis heita Ad gódu oss þénar þá.

2. Viljir þú Herrann haldi Hörmúngum sínum frá, Að safna meir synda gjaldi Sómir þér ecki þá.

Ef straffid á ad réna, Aflàti syndin fyrst, Gud hefir huggun léna Helzt þeim, sèm fengu séna Súra syndanna lyst.

3. Um leónid lærdir rita, Lambinu vægi þad, Vilji þad vægdar leita; Verum minnugir, ad Oss lætur lìka veina Leónid af Júda ætt. Til huggunar er þad eina, Audmýkt og bænin hreina Vel fær oss vid þad sætt.

4. Ydrandi og audmjúkt hjarta Utslockur heiptarbál Vors Guds, því vel nam skarta Vonin í hreldri sál, Oll vor hrygd og mótlæti Engin stór hormúng er, Syndin því nafni sætir, Ad svoddan vel þú gætir, Avoxt því vondan ber.

5. Hvad viltu kveina og klaga, Krossinn þó ami þér, Fyrst þú um þína daga Þýngra forskuldader; Ef bolinu lætur leita Lids, fyrri enn synda þrá, Vinur veraldar sveita Víst máttu þannveg heita, Ovin Guds ertu þá.

6. Svosem þad Gud er gódur, Gagnstæd vondsku er synd, Armædu allrar sjódur, Allskyns hormúnga lind; Fyrst refsar Gud þeim réttláta, Sem reynist tídum hér, Ad synd skuli hann sína játa, Syrgja og af hjarta gráta, Von er slíkt verdi mér.

7. Finnum því fegins hendi Fodur-hrís elskuríkt, Fognum þeim fridarvendi, Forþént er meira enn slíkt; Má Gud um miskun beidast, Því miskuna vill hann oss; En vid athæfid leidast Er von hann muni reidast, Og senda svoddan kross.

8. Ef lidugur viltu vera Vid hvorskyns neyd

og pín, Ydran skalt grátinn gjora, Gud mun þá sjá til þín, Fagnar hans Fodurs hjarta, Fyrst þú svo leidréttist, Og hvad þú um villt kvarta, Ef þín trú kann ad skarta, Gjorvallt til góda snýst.

9. Aví! eg aumur játa, O, Herra Jesú kær! Mér er makligt ad gráta, Mín synd því orkad fær; Særdu mig sem þér líkar Í sorg og ángri hér, En hédan þá hlýt eg víkja, Hjártad þitt mildiríka Vægi þá, minn Gud! mér! Amen!

## 8. Sálmur.

### Krossinn er stundligur og tekur enda þá minst varir.

Lag: Krists er koma fyrir hondum.

Sannkristin sál þad lærdu, Ef sækir þig harmastríd, Og von þína vid þad nærdu, Ad vita þess rétta tíd; Stund þad en engin æfi Er sem þú lídur hér, Almáttugur Gud gæfi Ad gættum þess allir vér.

2. Þó lífi og sálu leidist Lángsamlig þjáníng sú, A augnabliki hún eydist, Adurenn hyggur þú, Í raunum hér þó hjarir, Og hjálp fáir einskis manns, Sækja þig síz þá varir Sældir þíns fodurlands.

3. Þú í dag lágt sem liggur, Leikur á morgun hýr, Ad aptni ert þú hryggur, Annars dags sorgin flýr; Litla stund krossinn lemur, Med lífinu ætíd þver, Eylífdin eptirkémur, Sem allt gott færir med sér.

4. Margir heidnir menn hafa Huggun þvílíkri nád, Og meint í mótgángs vafa Mundi sitt batna rád; En hvad mun oss þá sóma, Utvalin Herrans þjód, Sem vitum Guds vilja og dóma, Vonandi á heit hans gód?

5. Vertu því þolinmódur, Þeink ad Drottinn er trúr, Huggari hardla gódur, Hann sviptir kvölum úr, Eptir hrygd gledi géfur Gædska og nád hans skær, Eylífa óró hefur Enginn, sá Gudi er kær.

6. Þann, sem Gud agar úngann, Elskar hann nærsta heitt, Vid sinn þann sorgar þúnga Sá lærir þetta eitt, Ad vort líf og þess blómi Armæda og hormúng sé, Og þará eptirkomi Eitt betra sælgæte.

7. Vor kross er verdur eigi Ad vidlíkjast þeirri dygd, Er géfst á andláts degi Utvaldri Jesú hird, Þó neyd, sem hvor vor hefur, Hér vari í þúsund ár, Frekari gledi géfur Gudsríkis dyrdin klár.

8. Sigurvégarinn sæti, Son Guds, minn Jesú kær! Sem styttir, stydur og bætir Stund þá, sem lídum vær, Auk mér styrk orda þinna, Ad eg, þá líf mitt þver, Burt megi fara og finna Fagnadarvist hjá þér! Amen!

## 9. Sálmur.

**Um vonina og hvörnin hún er naudsýnlig í krossinum.**

Lag: Nú bid eg, Gud! þú nádir mig.

Ef þú, mín sála! athugar Eitt ráð, sem best til heilla var Endurlausnarans elskendum, Og hans krossbjádu

manneskjum, Orvínglast munt þá aldrei þú, Er von, þolgædi og heilog trú, Þetta Guds bernum reynda rád, Sem reidir sig uppá Drottins nád.

2. Sú von er veik og vodagjorn, Ad voga frekliga á heimsins born, Kærleiki þeirra valtur var, Vega þeir minna enn ecki par, En sællra Gudsbarna gledi von Grundvollud er á Maríu Son, Forþénan hans og fyrirheit, Sem framkoma hún um-sídir veit.

3. Vonin án þolgéds varla er; Vonar mann þess hann ecki sér; Vonadi Abraham vonarlaust, Von hans fann honum sælu-traust; Von mína, ó, Jesú! verka þú, Vongódur svo eg bídi nú, Uppá þad sem eg vona vil, Verdur hún aldrei skammar til.

4. Gód vonin kédja gullig er, Gud vill med henni draga ad sér Alla þá henni halda fast; Hinir, sem fyrri orvínglast, Eptir verda, svo aldrei ná Eylífri sælu himnum á, Sem vonin hefir ad vænta sér; Vit þad, mín sál! og gæt ad þér.

5. Osegjanligast afl og krapt J útvoldum Guds hefir vonin haft, Angrádar sálir sanna þed, Sorg þegar kémur hondum ad; Þó yfirgéfnar af ollum sé, Athvarf er gott í voninni, Hún er ein dýrdlig Drottins gjof, Drottni sé fyrir hana lof.

6. Von mannlig eckért vinna kann, Verkar þá somu náttúran, Onnur gudlig, þess gætir þú, Géfur von þeska heilog trú; Von mannlig morgum vinnur grand, Von til Guds, himneskt fodurland, Þann sem hin fyrri fella vann, Feldann vidreisti onnur hann.

7. Vonin stadfost og velgrundud Vorri trú

tengir sjálfann Guð; Vonin þitt sálar akkér er, Og skjeldur sá, þú fyrirber; Stólpi réttur hún reiknast ma, Rótfestur sjálfum Guði á; Hinir, sem vona á veikann reyr, Vona til skammar síðar meir.

8. Með krossinum vill vér vitum Guð, Vonin hvað fast er grundvölluð, Því margir halda í meðlæti Mikið af trú og voninni, En þegar krossinn klappar á, Klögun stóra þeir hafa þá, Í voninni áður vel styrkvir Varla þá skilja, hvað hún er.

9. Allt vort mótlæti endíng fær, Eptir því bíður vonin skær, Þó Guð frávikinn sýni sig, Sízt bregður hann sín orð við þig; Öðruvísi enn ætlar þú, Optsinnis kémur fram hans trú; Vona þú, Drottins veik mannkynd! Að væna hann lýgi Er skaðlig synd.

10. Lausnari minn! þig lofum vér, Lífsheill vor stendur öll af þér; Verka þú í oss von og trú, Viljir oss, Drottinn! hyrta þú; Svo hvor og einn með trúartraust Til þín andvarpi af hug og raust; Þóað þú, Drottinn! deydir mig, Drottinn! þó skal eg vona á þig! Amen!

## 10. Sálmur.

Hvarfyrir að Guð stundum undandragi sína hjálp í krossinum.

Lag: Hvar mundi vera hjartað mitt.

Hugleið, mín sál! þíns Herra sið, Hans born þó kalli þrátt, Bænheyrslan stundum bíður við, Betur

þad grunda átt; Ydrunardvol og uggleysíd Af þessu varast mátt, Þessa hans bending vakna vid, Verkar hún frid og sátt.

2. Opt hrópar Gud í eyru manns, Ad yfirbót skuli hann tjá, Þegar vér ordid heyrum hans, Hann sjálfur talar þá; Hvert fær þá Drottinn af oss ans? Yfir því klaga má; Mun þá von Herrann himnarans Harmi strax létta frá.

3. Ef þú villt Drottinn opni sín Eyru, og heyri þig, Hann vill þá fyrst þú heidrir sín Hans ord, en óttist sig, Æ bjódi Gudi inn til þín Ydranin hjartanlig, Vægd hans þá þinni veiki og pín Vendar á hægra stig.

4. Vill Gud og líka vidlits seinn Vita hvort trú er gód, Þó fyrir honum ei hyljist neinn, Hans vill samt spekin fród, Ad þad, sem hann vissi ádur einn, Allri sé kunnugt þjód, Sjálfum oss er þad sómi hreinn, Syngjum því fögur ljód.

5. Angrar oss tídt, sem ei sé fol Adstod hans, þó lofud, Bendir oss því sú bænar dvol Betur ad kalla á Gud; Æ! hvad sárt nun þá eylíft bol, Er lídur sál topud! Vardveit þú oss frá þeirri kvol, Prísníng háblessud!

6. Því meir sem blessud bid hans hér Bídur med hjálparstund, Því fegnari henni verdum vér, Vor þegar huggast ond, Besta lækníng þá býr hann þér, Er beiskust er krossins und, Einn fyrir því hann ollu sér, Af sinni mildri lund.

7. Hver mundi leita læknarans, Edur lystir

kunna þær, Ef enginn yrdi sár? til sanns Svo erum líka vær; Hyrdum lítt um Gud himnaranns, Hormúng nema þá slær; Seint mundum vér og vitja hans, Væri oss krossinn fjær.

8. Ecki hefur Gud (eg af því veit) Einum mér gjört þad sár, Ad heyrast, þá eg fer hans á leit, Harla styggur og fár, Wid Abraham færdi hann fram sín heit Um fleiri enn tuttugu ár; Fyrrenn þad Jósephs fjötur sleit, Fellt var margt harma-tár.

9. Endurlausnarinn ljúfi minn! Líf mitt og verndarskjól! Sannleiksvísari og vegurinn! Weitstu luckunnar hjól; Géf ad eg farií fadminn þinn, Fegurdar himnesk sól! Þar sem þinn skari kætir kinn Kríngum þinn tignarstól! Amen!

## 11. Sálmur.

Drottinn leggur ecki meira á oss enn vér kunnum ad bera.

Lag: O, Fadir minn! Eg þrællinn þinn.

Mildi Jesú! Eg minnist nú Magt þinna fyrirheita; Sorgmæddum lýd Þín líknin blíd Lofar hugsvolun veita; Armædu tár, Og eymdin sár Augun mín hér þó væti, Heidrar mín sál Þitt háleitt mál, Huggarinn edla sæti!

2. A allann veg Þú veitst hvad eg Weikur er til ad lída, Alvitra þín Armæda mín Markar hvad heitt skal svída, Mann rauna þrá Ei meiri á Mig

legst, enn borid gæti; Heidrar mín sál Þitt heilagt mál, Huggarinn edla sæti!

3. Fyrst þá þú hér Gafst, Herra! mér Heiti kristinna manna, Vigtadi þá Þín vitskan há Vissann skamt hormúnganna; Náttúru mín Nád þekti þín, Og þolgædis heunar mæti; Heidrar mín sál Þitt heilagt mál, H. e. s.

4. Megnari kross Þín misskun oss Meir gaf, er kunnum lída, En minni þeim, Vid mótgángs heim Midur sem vinna stríða, Krapt bædi þann, Sem þola kann, Þú sendir og mótlæti; Heidrar mín sál Þitt heilagt mál, H. e. s.

5. Þann kross þú lér, Best þykir mér Þolinmódliga ad bera, Med því eg veit Þín mildi heit Mér fyrir bestu vera. Í hormúnga sjó Þú send mér ró, Svo eg hann stadist gæti; Heidrar mín sál Þitt heilagt mál, H. e. s,

6. Ef sólin klár Um oll heimsár Æ skyldi fagurt ljóma, Akurlonden Þá yrdi senn Eydd sínum fyrri blóma; Eins visnar oss, Fyrir utan kross, Akurinn trúar mæti; Heidrar mín sál Þitt heilagt mál H. e. s.

7. Þá Fadirinn sér, Ad Barnid ber Byrdi, sem þad ei veldur, Og kallar um lid, Hann kætist vid, Kémur og bjargar heldur; Svo byr Gud nær, Þá bidjum vær, Born sín þó stundum græti; Heidrar mín sál Þitt heilagt mál, H. e s.

8. Þú hefir skapt, Fyrir hædstann krapt, Herra minn! líf og anda, Allt hvad eg er, Og orka hér

Er smídi þinna handa; Þó nú þín nád Mitt reyni ráð, Réttlætis = Herrann mæti! Heidrar mín sál Þitt heilagt mál, H. e. s.

9. Þú hyrdir trúr! Mér hættum úr Hjálp veitir mildiríka, Eg treysti þér, Þú tak vid mér, Typta mig sem þér líkar; Því meiri kross, Þess betra hnoss, Þúng hrygd oss aflar kæti; Heidrar mín sál Þitt heilagt mál, H. e. s.

10. O Fadir kær! Oss felum vær Í forsjá og geymslu þína, Vægi oss þín nád, Og vísdóms ráð, Svo vinni oss engin pína; Eptir vorn grát Oss erfa lát Eylíf gledinnar mæti! Þig heidri vor sál, Med huga og mál, Í himnesku dýrdarsæti! Amen!

## 12. Sálmur.

### Um þolinmædina í krossinum.

Lag: Sá frjáls vid lögmál fæddur er.

Festu, mín sál! í sinni þér Sonar Guds mild heilrædi; Allt hvad þig kann ad ángra hér Umlídtu í þolinmædi.

2. Krefur þess Gud af kristnum nú, Krossinn þó megi svída, Þau sár þér veittir sjálfur þú Sonn er þín skylda ad líða.

3. Reidstu því ecki Herrans hond, Sem holl gaf þér nádarskipti, Fyrir svo mjúkann Fodurs vond Fordæmíng af þér svipti.

4. Ef þú ert Herrans óskabarn, Elskadu þol=

inmædi, Því óþolinmódur og efagjarn Egnir Guds hefndar brædi.

5. Penktu med þér í sérhvert sinn, Sem þig kann bol ad henda, Eg veit Lausnarinn lifir minn, Loford sín mun hann enda.

6. Heilög skrift kallar krossinn þann Krists byrdi, hvíld sem vinnur, En vor skynsemd um audnu bann Adrar meiníngar finnur.

7. Af þessu og odru þú nú sér Pína skynsemi rànga, Móti hún Gudi í ollu er, Attu því hana ad fánga.

8. Ef Gud þér krossinn sendir sinn, Segdu med elsku þýda: Verdi, minn Drottinn! vilji þinn! Vil eg þín gladur bída.

9. Pá mun Gud aptur ansa þér: O, mitt barn hjartakæra! Fyrst þú svo treystir mæddur mér, Mín skal þig huggan næra.

10. Vér bidjum Guds nafn helgist hér, Helzt þad í raunum skédur, Efad vor sála sorgir ber Sonnu þolgædi medur.

11. Vér bidjum ríki heilagt hans Hér til vor nidurvíki; An krossburdarins (enn til sanns) Enginn fékk himnaríki.

12. Vér bidjum ad hans vilji klár Verdi á jord sem hædum; Nú er hans vild, ad sorg og sár Safni oss tignar gædum.

13. Pín moglan Gudi mótstædlig Mein þitt gjorir æ verra, Eykur þitt straff, en sturlar þig, Og styggir þinn milda Herra.

14. Hann einn þér sendir harm og bót, Heilstund og lífsgjöf væna; Ef þú hans vilja mæglar mót, Magt sinni viltu hann ræna.

15. Sól, stjörnur, túngl og allt hvad er Öllum Guds vilja hlýda; O! hvad mun verda aumum þér, Ef einn viltu honum strída?

16. Þolinmædi, sem í býr oss, Ef Drottni gjarnan hlýdir, Mýkir hans géd, en mildir kross, Og miskun ödlast sídir.

17. Fögnudur má hér finnast nú, Fyrst þig vill Drottinn græta, Med þinni hörmúng heidrar þú Heilaga Þrenníng mæta.

18. Jesús þá ædstu upphefd fékk, Eptir mótlætíng slíka; Þann sama veg, sem Guds Son gékk, Gánga máttu og líka.

19. Herra! nær sem þú hyrtir mig, Hress mig í þolinmædi, Og hjálpa mér, svo eg heidri þig Harmandi og gladur bædi! Amen!

## 13. Sálmur.

**Framvegis um þolinmædina og hennar dæmi hjá þeim heilögu.**

Lag: Lifandi Gud! þú lít þar á.

Hygg ad, mín sál! og sjá þú hér Sætligt huggunar næmi, Fyrir hugskots sjónum hafdu þér Heilagra manna dæmi; Þolinmædinnar þeirra dygd Þér kénnir, hvörsu gledi og hrygd Adfylgjast opt í heimi.

2. Þegar Job gékk ámóti mest, Mælti hann gladværum anda: Guðs nafni veri gofgun best, Gjef tók hann sinna handa! Þó, Guð! þú hafir í helju mig, Herra! þó skal eg vona á þig, Og ætíð stödugur standa.

3. Sveinir í eldi þreydu þrír, Þolgædi stóru medur, Styrkti þá engill Herrans hýr, Hjá þeim gángandi sédur; Svo huggar Drottinn hrelda lund, Henni á sinni píslarstund Forsmeckur lífs vär lédur.

4. Þá Stephanus dauda dæmdur var, Dýrd Jesú fékk ad líta, Fagnandi þúnga þjáníng bar, Þared hann Júdar grita; Hans píslarbrædur sama síd Sídan hafa og vidhaldid, Sárt þó hér máttu sýta.

5. Þolinmædin er þacknæm fórn, Þad skaltu, sál mín! læra, Hvor sem vill Drottinn heidra vorn, Hann skal þad offur færa; Hjá þyrnum upprann sú edla rós, Æ kann trúna þad fagra ljós Um útvalníng vora ad næra.

6. Þolinmædi Guðs merki er, Menn hans þad fordum báru, Sá því fastliga heldur hér Heims mót kvalrædi sáru, Sigurvinníng hér sællri nær, Sídan kórónu dýrdar fær, Ljómandi í ljósi kláru.

7. Óþolinmædi er til sanns Allra manndygda sneidir, Sídan í brjóst þess sama manns Sauruga þánka leidir; Sá sem grædarans hatar hönd, Honum þó sýnist lækníng vond, Sjálfann sig mest sá meidir.

8. Þar sem kross Drottins enginn er, Uggleysíd býr þar inni, Verdur sá mann, þad med sér ber,

Myrkvadur í hug og sinni; En krossþjáðum Drottinn sýnir sig; Svoddan skipti kýs eg vid þig, Minn Jesú! sálu minni.

9. Albjartur spegill eru þér Adrir, sem neydin vefur, Allstadar hvar þú aumann sér, Athuga hvad þú hefur Forþént, ef rédi ad reikna frekt Réttlætis-Herrann þína sekt; Sjá þar hvad Gud þér géfur.

10. Herra Jesú! sem hefir veitt Heilögum þolinmædi, Hress þú mitt sinni og hjarta þreytt, Heims mót sáru kvalrædi! Géf mín vinníng sé gledilig, Gladur vil eg þá lofa þig Lífs og framlidinn bædi! Amen!

## 14. Sálmur.

**Allri vorri áhyggju skulum vér varpa uppá Drottinn.**

*Lag: Konúng Davíd sem kéndi.*

Gledst eg í Gudi mínum, Sem gaf mér þad holla rád, Ad umsorga allri pínu, Uppá hans vægd og nád Varpa eg í von og trú; Nádar hans ecki nýtur, Sem nádarbod hans fyrirlítur; Mín sál! gæt þarad þú.

2. Sjúkdómi, sorg og dauda, Og sérhvad sem vera kann, Veikleik og vili nauda, Varpa því uppá hann; Einn hann fyrir öllu sér, Hjarta þitt hann vidstydur, Hann gledst, ef þú svo bidur, Hann veit hvad hollast er.

3. Ef þú uppá þinn Herra Ahyggju leggur þín, Harmatár hann afþerrar, En hérvistin þegar

dvín Þig hefir hann heim med sér. Nýt eckért nú þú lídur, Sú neyd, sem hjartanu svídur, Frelsarans ferill er.

4. Láttu þér, sál mín! líka Lausnarans mynd ad ná, Guds Fodurs gædskan ríka Gjorla þad fyrir-sá, Legg þad allt á hans náð; Ódruvísi enn þú meinar, Opt megum vér þad reyna, Hann sendir hjálp og rád.

5. Ef þú villt ecki leita Adstodar Drottni hjá, Honum þú hardt afneitar, Hérad mín sála gá. Þolgódur frelsi fær, Viljir þú vægd hans hljóta, Viljirdu hans dreyra njóta, Hans krossi haldt þig nær.

6. Bædi í grát og gledi, Gættu þess, sál mín kær! Vertu med gódu gédi, Gud vill þér standa nær. Sá kallar svo til þín: Kom barn mitt hjart-akæra, Krossinn þó gjori særa, Nád skal þig næra mín!

7. Jesús þitt hofud heitir, Hans limur ertu einn, Himneska huggun veitir Hærri enn kross er neinn, Sjái hann þú elskar sig, Hans milda mód-urhjarta Má sundurbresta í parta, Fyrrenn forláti hann þig.

8. Hafi Gud Son sinn sæta Séd þá hann pínd-ur var, Eins vill hann ad þér gæta A tíd mótlæt-íngar, Treystu því hans á heit, Öll ord hans eidar eru J órjúfanligri veru, Þad fyrir víst eg veit.

9. Þó hjartad veiklast vildi, Vonin sé huggan þér, Meiri er Drottins mildi, Enn mannlig þín

vitska sér; Sem Gud er meiri enn mann, Gledin er harmi hærri, Hans náð og gæðska er stærri, Enn hjartad þitt hyxa kann.

10. Náð stóra bad eg þecki, Þegar Gud styrkir mann, Svo hann orvínglast ecki, Andsvara heldur kann: Sál mín! því syrgir þú? Guds máttu gladvær bída, Gud mun, þá stundir lída, Því lina, er líd eg nú.

11. Hér vil eg hjartans feginn, Herra minn Jesú kær! Vera á þínum krossvegi; Veit eg þín nádin skær Alla stund er mér nær, Þó eg í hormum hjari, Hverfur þad sízt þá varir, Og allt góda endíng fær.

12. Eptir fer annar vegur, Öllum Guds börnum kær, Yndæll og ástúdligur, Allt þarámóti hlær, Því hönd þín, ó, Herra! skær Eptir hrygd gledi géfur, Og Gudsbörn í dýrd upphefur; O! ad þar værum vær! Amen!

## 15. Sálmur.

### Um þá réttu Guds hjálparstund.

Lag: Öll kristnin géf ad gaum.

Herrans huggunartíd Harmandi kémur lýd, Þá mótlætid mest áliggur, En madurinn sízt tilhyggur; Hjálp þín mig, Herra! sedur, Hjálparstund þín mig gledur.

2. Ein jódsjúk ei veit þar Augnablik fædíngar, Þegar harmur er hærstur, Herrann er þá sem nærstur; Hjálp þín mig, Herra! sedur, Hjálparstund þín mig gledur.

3. Ef Lausnarinn lætur hér Liggja sinn kross á þér, Athuga einn veg líka, Pad umsnýst í gledi ríka; Hjálp þín mig, Herra! sedur, H. st. þ. m. g.

4. Israel huggadi hann, Þá hafinu skipta vann, Mig vill svo mildi hans leida Um mótlætis hafid breida; Hjálp þín mig, Herra! sedur, H. st. þ. m. g.

5. Þá hafid hæckad var, Hægur vindblær kom þar, Og veguna vel þerradi, Vald Guds svo tilskickadi; Hjálp þín mig, Herra! sedur, H. st. þ. m. g.

6. Andi Guds er sá blær, Allann krossveg sem fær Hreinsad til beggja handa, Harmurinn kyrr má standa; Hjálp þín mig, Herra! sedur, H. st. þ. m. g.

7. Guds born þó gráti hér, Guds Son þeim nærri er, Herrann má heyra laungum: Hjálpa oss, vér forgaungum! Hjálp þín mig, Herra! sedur, H. st. þ. m. g.

8. Hann stillir hættann sjó, Hann veitir góda ró, Heims bylgjur helzt þá rísa Hann vill sinn krapt auglýsa; Hjálp þín mig, Herra! sedur, H. st. þ. m. g.

9. Mann hjálp þá úti er Æ hradar Drottinn sér, Þá oll medol bila og bresta Búin er huggun mesta; Hjálp þín mig, Herra! sedur, H. st. þ. m. g.

10. I fyrsta ángur stig Ef Gud strax huggar þig, Litt mundi madurinn prísa Mátt hans og krapt alvísa; Hjálp þín mig, Herra! sedur, H. st. þ. m. g.

11. Hér finnst ei hormúng sú, Herra! ad e kunnir þú Lækna, ef þín líkn og mildi Leggja sig þartil vildi; Hjálp þín mig, Herra! sedur, H. st. þ. m. g.

12. Allt hefir tíma og tíd, Tíd Guds þó komi um síd, Hann lætur heim fyrst reynast, Hans tími kémur seinast; Hjálp þín mig, Herra! fedur, H. st. þ. m. g.

13. Guds vitska og veraldar brast, Vel ecki forlíkast, Búna Gud huggan hefur Þá heimurinn frá sig géfur; Hjálp þín mig, Herra! fedur, H. st þ. m. g.

14. Þad sem vér virdum þrátt Veiklyndir undandrátt, Hjá Gudi er hjálpar flýtir, Hans mildi sál mín lýtir; Hjálp þín mig, Herra! fedur, H. st. þ. m. g.

15. Meistarinn hjálpar hýr! Hormúng minni afstýr, Tak oss þá tíd þér líkar J tjaldbúdir dýrdaríkar, Þar himnesk nád hjartad fedur, En heill þín sálirnar gledur! Amen!

## 16. Sálmur.

J krossinum skulum vér bidja óaflátanliga og ecki þreytast.

Lag: Skaparinn stjarna Herra hreinn.

Hygg ad, mín sál! og hugleid þú, Hvornin þér ber í sannri trú, Ef krossins naudsyn ber til brád, Ad bidja þinn Gud um hjálp og nád.

2. Skips-bátur vor er bænin hýr, Besta vara er krossinn dýr, Hladinn med svoddan veru og val Verdur hann fyrrenn sigla skal.

3. Hafid, sem fyrir hendi stár, Heitir kristinna manna tár, En mastrid, sem veldur vodum líns, Veri píslartré Herra þíns.

4. Jesús sjálfur er seglid þad, Sem þessu mastri hallast ad, Heilagur Andi er hollur blær, Heppinn er sá þeim gusti nær.

5. Ef bænar skip vort svo búid fer, Blessud og farsæl reisan er, Upp fyrir Herrann himna ranns Heldur þá bænin syndarans.

6. Bænin hljómar Guds eyrum í Allfagurt mjøg, hann gledst af því; Grátlig bæn vor er Gudi hjá Gledinnar saungur himnum á.

7. Herrann segist því hyrta þig, Ad hjarta þitt læri ad kalla á sig, Belid kénnir ad bidja þér, Bænheyrslan þar á eptir fer.

8. Bænin vinnur og bindur þann, Bondum sem aldrei vessast kann, O! hvad sá kraptur er frábær, Almáttugann sem sigrad fær.

9. Bænin og vonin vinna allt, Vit þad, mín sál! og gjarnan haldt; Fyrir þessi hervopn heilaglig Herrann lætur oss vinna sig.

10. Bænin skal vera af brjósti heit, Bygd uppá Drottins fyrirheit, Þau ord, sem sjálfur sagdi hann, Sigrandi gjøra bidjandann.

11. Eg stend vid dyrnar, Drottinn minn! Drottinn! eg kalla á almátt þinn; Láttu, ó Gud! á aumum mér Ást þína og gædsku fyllast hér.

12. Þú hefir lofad ad heyra mig, Hérfyrir kalla eg á þig, Eg treysti þínu Amen víst, Eidrofi muntu verda sízt.

13. Overdugur þó eg sé þess, O Gud! gæt þú

þíns réttlætes, Ef sármæddum þú sinjar mér, Sannleikur þinn í vedi er.

14. Avi, minn Herra! allt veitst þú, Ef eg skal ecki tapast nú Undir þeim krossi er eg ber, Ast þín og gædska hjálpi mér.

15. Eg leita nú þins andlites, Eggjudu mig þín bod til þess, Fylltu á mér þín fyrirheit, Fer eg þess gljúpur nú á leit.

16. Hvernin skyldi Gud gleyma mér, Gjafari minnis sem þó er, Andi hans mildur er mér hjá, En Jesús bidur himnum á.

17. Aldrei kémur þad andvarp hér, Ad ecki hafi nockurn krapt med sér, Ef hjartad er annars heitt og skært, Huggun sú hefir marga nært.

18. En þú skalt, sál mín! þar ad gá, Þér vanti ecki trúna hjá, Þó Herrann dragi sín heit á frest' Hans ordum ber ad treysta best.

19. Þó hold þitt, Satan eda heimurinn Hædi ad þér med grimmleik sinn, Láttu þó heldur aldrei af Ad upplypta þínum trúarstaf.

20. Ef túngan ecki tala má, Til Guds þitt hjarta kalli þá, Svoddan andvarp þér sældir fær, Og sigri fegrum hjá Gudi nær.

21. Segulsteininn med sinni art Ad sér ef dregur járnid hardt, Betur mun géta bænin þín J bolinu ladad Gud til sín.

22. Hér fyrir skaltu harmi í Halda fastliga trausti því, Munn, augu, hendur, huga og sál Hefja til Guds med bænar mál.

23. Hann hefir lyst ad horfa á þig, Heyri hann þú ákallir sig, Hægir þitt stríd, en styrkir trú, Stodugur ef ad blífur þú.

24. Bæn minni styrdu, Herra hár! Heilog fyrir þín píslarsár, Svo harmaraustin, þó hér sé laung, Ad himneskum verdi dyrdarsaung! Amen!

## 17. Sálmur.

Um þá sérligustu huggun í krossinum.

Lag: Gædskurikasti grædari minn.

Vel, kristin sál! þér vita ber Venju og stickan Drottins hér, Þá hermúng hann þér sendir, Sem er: hann vill mann huggadann, Hura þú tídt um fognud þann, Voli þá burt hann vendir; Eya! Eya! Hjortun tvist Fá hærsta lyst J hormum sínum, Gledstu, mín sál! í Gudi þínum.

2. Uppvekur Drottinn eina þá, Andi og líf sem burt var frá, Lifandi lífgar enginn; Harmandi sál því huggun fær, Henni fullgladur ecki nær, Svo hefir þad haldist lengi; Eya! Eya! Heimurinn Medan hjarta gledur, Herrann bídur, Þartil heiminum hafnar lydur.

3. Hvorn sem Drottinn vill hugga mjog, Hendir hann pína margvísleg, Hér smádir sídar sæmast; Þess meiri lægíng þú hér ber, Þess betri von til heidurs er, Svo skal nú sorg vor dæmast; Eya! Eya! Harmur, kæti, Hrygd, medlæti Helgum vinnur; Sæll er sá, sem þann fognud finnur.

4. Job þjádist áriu sjo í seck, Sídar honum því betur géck, Medlæti nádi nýu, Fyrir sje áriu harma hans Hundrad ár naut hann gæda lands, Þarmed full fjorutíu; Eya! Eya! Ei veit nær Enn verdum vær I velmagt settir, Herrann vor þegar harmi léttir.

5. O, kristinn madur! adgæt þar, Adurenn Jesús madur var Huggadi hann harma gjarnann, Nú fyrst hann gjordist Gud med oss, Géck sjálfur undir písl og kross, Og reyndi bel sinna barna; Eya! Eya! Skyldi hann þá, Sem heita má Vort hofudid frída, Sjá þad ei, hvad hans limir lída?

6. Hvor mundi láta hold sitt hér Harmandi kveina og barma sér, Ef hann þar gjort ad gæti? Vær erum Herrans hold og blód, Hans er til reidu magtin gód, Ad mýkja vort mótlæti; Eya! Eya! Drottinn kær! Þín vitjum vær, Þá verold grætir, Harmandi best þitt hjálprád kætir.

7. O, Herra Gud! sem huggun lér Hærri enn nockur mannraun er, Aumur eg á þig kalla; Innrættu mér í sinni og sál Sanna trú á þitt lífsins mál, Og lát mig aldrei falla; Eya! Eya! Géf oss sídan Sæla tíd, Sem tregann bætir, Og utvalda þína um eylífd kætir! Amen!

## 18. Sálmur.

### Hvørninn Guds børn skulu hugga sig imóti heimsins barna lasti og lygum.

Lag: Túnga mín af hjarta hljódi.

Sá sem vid Gud semur trygdir, Sig vidbúi offók-

num, Helgar strídi hreckjum dygdir, Hrinda vondir frómlyndu:n; Alas heimsins, last og lygdir Laungum mya Guds bornum.

2. Huggar mig, þó heimurinn-ædi, Herra Jesú! kraptur þinn, Þú hefir vald og vitsku bædi, Ad veikja hann med grimmleik sinn; Í þydri bæn og þolinmædi Þín skal bída hugur minn.

3. Vertu gladur, Gudi hreinum Géf þú allann þinn málstad, Á hverjum bædi hann og einum Hefnir, svo þig undrar þad; Á hinum, sem vildi hefna í leynum, Hefnir sverd Guds tvíeggjad.

4. Aldrei verdur hefndin hærri, Heldurenn Gudi ef fengin er, Því veit eg er straffs von stærri, Styggi eg einn frómann hér, En þo heimurinn allur væri Í einum huga ad refsa mér.

5. Þegar eg hef þig, Herrann sæti! Hyrdi eg lítt þó veroldin Af hormúng minni hug sinn kæti; Huggast eg vid almátt þinn; Þú ert sá, sem þrautir bætir, Þú ert líf og kraptur minn.

6. Ord Guds hefir þú, ond mín kæra! Er hann Gud og Fadir þinn; O! þann sóma og sæld frábæra, Svoddan fær ecki heimurinn; Þetta á þig ad endurnæra, Ad þá dynja lastmælin.

7. Þegar Gud vill hormúng hægja, Heimurinn skal sér venda frá, Megnar hann ecki í móti ad bægja, Magt hans gjorvoll hjadnar þá; Lát hér, sál mín! nád Guds nægja, Naudhjálpari er réttur sá.

8. Angrast þarfyrir ecki máttu, Illir menn þó lasti þig, Gladvær allt þér gedjast láttu, Gott mál-

efni birtir sig, Sigurvinníng vísa áttu, Von er sú óbrygdanlig.

9. Pitt sakleysi þú skalt prýda Polinmædi sannri med, Sá sem vildi vinna og stríða, Vel má stunda hógvært géð; Betra er annars last að líða, Enn lof eylíft að setja í veð.

10. Heims þá lostunar hafið svarta Hefjast tekur mér á mót, Inn eg geng í hús míns hjarta, Hyggjandi að hvert þar er bót, Ef sakleysið eg sé þar skarta, Sinni eg veröld ecki hót.

11. Parmeð, sál mín! þinn Lausnari, Þóað nefndur væri hann Villumadur og vínsvelgjari, Viltu betra kost en þann? Tign er þér að fylgja hans fari, Fegnudur meiri ei vera kann.

12. Hugga þú mig, Herrann sæti! Heimurinn þá mig lastað fær, Umborið svo eg það gæti, Andláts tíminn þá mér nær, Eylíft géf þú eptirlæti Ond minni, Herra Jesú kær! Amen!

## 19. Sálmur.

**Hvörninn madur skuli stríða móti Djöfulsins heimsins og holdsins freistíngum.**

Lag: Til þín, heilagi Herra Guð!

Hvor sem megtugann óvin á Utbúinn skal sá vera; Sál mín! eg fjandmenn þecki þrjá, Þér mein sem vilja gjöra, Djöfullinn, heimur, hold og blód, Hérímót skal nú kristin þjóð Herskrúda Herrans bera.

2. Hardla mjó er til himna slód, Hvor einn þad fyrir sér virdi, Undir, Satan med grimmri glód, Sem gjarnann reisendur myrdir; Heimur, í fyrir, hindrar stig, Holdid vill undirdraga þig, Þúng er sú brauta byrdi.

3. Hvorjum sem rædur hold og blód, Holdliga er sinnadur, Heimur gédstolta gjorir þjód, Gæt þín, ó vesæll madur! Hatur ef fyllir huga þinn, Hofundur þess er Djofullinn, Vertu því varhugadur.

4. Hann leggur fyrir oss heimsins hnoss, Holds lyst og eptirlæti, Med vorum bondum svo bindur oss, Búist hvor vid því gæti; Geym mín frá svoddan grimleik hans, Guds Son! er klæddist holdi manns, Djofuls sigrarinn sæti!

5. Þá vondir þánkar hreifast hér, Í hjarta og sinni mínu, Óvinur minn þá ætlar sér, Ad etja vélrædi sínu; Andvarpa eg í ást og trú Eptir þér, Herra minn Jesú! Og líknar-lidi þínu.

6. Sterkann frívilja Gud oss gaf, Glæpum sem kunni ad varna, Hyggjum því fúsir heimi af, Holdinu strídum gjarnan; Ill huxan fái hún yfirhond, Óslitanlig oss færir bond, Vid henni því helzt skal sporna.

7. Víst er manni ómoguligt Meinsemd allri sig vara, Sem loptsins fuglum loptid frekt Lydur má enginn spara; Ord Drottins þó og ótti hans Utríma kann af hjarta manns Óvina allann skara.

8. Bænin vort medal besta er, Bugar sú hormúng alla, Med henni jafnan eg vil hér, Jesú! þitt

nafn ákalla; Veitstu best alla veiki minn, Vorkun-semi og gædska þín Ur mynni kan mér ei falla.

9. Gud stendur hjá og styrkir oss, Stundum þó synist fjærri, Sigrendum géfur gledi hnoss, Gjof sú er ollu stærri; Himneskann dýrdar hátrón á Heimflytur svo ad lyktum þá; Engin er hnggun hærri.

10. Minn Herra Jesú! máttur þinn Mér bid eg jafnan hlífi, Ovina selskap allann minn Af mínum huga drífi; Géf mér þeim sælann sigur á, Svo eg mætti ad lyktum ná Guds barna lausn og lífi! Amen!

## 20. Sálmur.

### Um Guds nádarríka hjástod í krossinum.

Lag: Fadir vor! sem á himnum ert.

Ottastu ecki, eg er þér med, Eg sæ vel þína hormúng séd, Hond mín skal styrkja hægri þig, Haldt þér í sannri trú vid mig, Svo segir Drottinn Zebaoth; Sál mín! athugum þessa not.

2. Sjá nú hvad Drottinn sætur er, Sjá hvorsu mikid ann hann þér, Oss virdir svoddan ávarps hann, Oss hvorja þrátt í syndum fann; Nú ef þú trúir máli manns, Meir ber ad treysta ordum hans.

3. Gud Fadir bídur gædsku og rád, Guds Son oss keypti þessa nád, Guds Andi hressir hjartad vort, Hann kann ad bæta allann skort, Hænumst því allir ad honum, Eins og born sínum foreldrum.

4. Opt finnum vér þann óstyrtleik, Af því nátt-

úran mjög er veik, Nær sem í krossi kólnar dáð, Kalla til Guðs og bið um náð; Hann vill þá svara: hér em eg, Heill þinnar sálar eylífleg.

5. Láttu þér Drottins nægja náð, Ráð hans kann þitt að bæta ráð, Ráð eru nóglig honum hjá Hjástoðarlausum björg að fá, Fáum vér styrk af hendi hans, Hann þekkir veikleik syndugs manns.

6. Ovina vorra ójafnað Allann fær Drottinn vel sefað, Hann hefir líka heitið því, Hans ertu, sál mín! valdi í, Hann þig bevara vill og kann Voldugligar enn nockur mann.

7. Eylífur sigur er þér vís, Á öllu því, sem nú móti rís, Eylífa gleði og unun há Utvalin Guðs-börn síðar fá, Um eylífð svo prísa eigum þann Ís-raels rétta hjálparann.

8. Svo trúum vér og vitum það, Vort sálar-traust er grundvallað, Uppá himneskann Herra þann, Hvörs munnur aldrei ljuga vann; Hann er sú eina aðstoð manns, Allir því treysti miskun hans.

9. Verði, minn Jesú! vilji þinn, Veitstu best allra styrkleik minn, Hondin þín blessuð hjálpi mér, Heims þó eg líði offsóknir, Annastu lífs og liðinn mig, Lof sé þér, hátign guddómlig!

## 21. Sálmur.

**Hvarfyrir að í heiminum gángi ógudligum vel en góðum illa.**

**Lag:** Hæsti Guð! Herra mildi.

Réttlátir finnast færri, Fæcka dagliga þeir, Hinn

er hópurinn stærri, Hvorn dag þó fjölga meir; Þús-und manna á milli Má vel ské finnist einn, Sem vendra flock ei fylli, En Frelsarans stundar hylli Ljúfur og lyndis hreinn.

2. Orsök til svoddan greina Sannliga vera má; Vondir því vellyst reyna, Að veröldin elskar þá; En þeim sem heimur hatar, Af heiminum eru sízt, Þarfyrir þeim hann glatar, Svo þjáníng og hormúng ratar Hvor sem í himininn býst.

3. Gud mun þó sína særna, Svo hefir hann lofad oss, Eigum vér ecki ad dæma Ovitrurliga um kross; Grípum ei Guds úr hendi Glöggust réttlætis met, Hann veit, þó harma sendi, Hvar vid um sídir lendir; Þess til eg gladur gét.

4. Húsgéstir Guds vér erum, Gætum hvort hlýda mun, Að Herra húsins gjörum Heimskliga ávitun; Best fer ad fadirinn rádi Fyrir sín úngborn smá; Margur þess midur gádi; Miskuni oss Gud og nádi Vora meinvillu þá!

5. Manns hugvit metur eigi Makliga efni það, Orèttvíst ad það segir Ord Drottins hábleśad; Davíd Gud sorgir sendi, Samt skyldi hann ei þann róm, Þartil af Herrans hendi Hann lærdi og ödrum kéndi Þann lífsins leyndardóm.

6. Þess meir sem vondir vasa Veraldar prjáli í, Þess hættara er þeim ad hrasa; Hinir þá eru frí; Vellyst heims voldugasta Vidlík því drafi er, Sem fyrir svoddan lasta-Svín hefir Drottin kastad, Ef madur illa ad fer.

7. A litlu hér sína fedur, Sídar med fullri nægd, Luckan ágjarnanu gledur, Giunir hann stundlig frægd, Heims eptir gótsi grefur, Grandar honum þad tál; En himneska audlegd hefur Hvor sem Drottni hér géfur Til lídíngar líf og sál.

8. O, Gud í upphædinni! Eg þín barnsképna þjád, Veiklud í vesöld minni, Veinandi bid um nád; Mig lángar ad sjá þann sóma, Sídar hvors von eg á, Þá eg mun lifa og ljóma Lífs med eylífum blóma Krofsherra mínum hjá!

## 22. Sálmur.

Hvørsu ad þeir frómu og gudhræddu eru í sínum krossi meir verdir í Guds augliti enn þeir ógudligu í sinni velgengni.

Lag: Kom Andi heilagi!

Fagnadu, sál mín sæl! Sorg láttu fara, Þøck fagra þenk og mæl Þínum Lausnara.

2. Angra heims eymd og þrá Þig aldrei skyldi, Því þú ert honum hjá Í hærsta gyldi.

3. Einn kraminn krofs-vesling Kærann Gud metur, Veraldar vídum hríng Virdir hann betur.

4. Ef Guds þú ástundar Elsku ad njóta, Ovinskap veraldar Víst muntu hljóta.

5. Þess Herra himnarans Hjartad þitt bídi, Ast betri er því hans, Enn øll heimsins prýdi.

6. Míns Guds ef ecki eg Einn barna væri, Hættann veraldar veg Viltur eg færi.

7. Eg kýs, minn Herra! hér Heldur að líða,
Og meður helgum her Huggunar bíða.

8. Jörðin hér hryggir þá, Sem himinsins eru,
En heims bernin hrekjast frá Himnanna veru.

9. Sínum Guð Syni ann, Svo má þó greina,
Að mesta mátti hann Mótlæti reyna.

10. Svo ann Guð sínum hér, Syrgja þó megi,
Eflaust þar umskiptir Á upprisu degi.

11. Því hærra heimurinn Hefja þig kynni, Í
augum Guðs í það sinn Ertu því minni.

12. En hér þótt hrumur sért, Heimi glataður,
Guðs í augliti ert Allvel tignaður.

13. Í þá tign honum hjá Hefjast kann enginn,
Utan forakti sá Illra heims gengi.

14. Fallvolt sú virðing er, Veröld sem lénar,
En hin, sem eigum vér, Aldregi rénar.

15. Ytra heims álit rírt Enganu mann stoðar,
En tillit þitt, Herra! hýrt Heill sálu boðar.

16. Aumka þú ánauð mín, O, Herra mæti!
Hressi mig hjástoð þín, Huggarinn sæti!

17. Svo þó eg syrgi hér, Syndir grátandi, O,
Guð! í einum þér Æ sé fagnandi! Amen!

## 23. Sálmur.

**Hvörninn maður skal höndla með stundlig auðæfi, og hugga sig í þeirra missir.**

**Lag:** Haldt oss, Guð! við þitt hreina orð.

Guð minn! órétt eg gjöri þér, Að gæði heimslig,

sem veittir mér, Eg læt svo blinda augu mín, Elsk=andi sídur hátign þín.

2. Eignar herra ert þeirra þú, Þótt oss lofir ad hafa nú Medferd þeirra af mildri nád, Magtin er þín og yfirrád.

3. Viljir þú reidast, veikur mann! Vid Drott=inn, þóad taki hann Eign sína, sem þér átti hjá, Aumliga mun þér vegna þá.

4. Þacka honum þú heldur skalt, Hans þó ad verdi lánid valt, Ad hann svo lengi unnti frí Illum þér fyrr ad halda því.

5. Láttu Drottins þér lynda rád, Luckunnar hefir hann einvaldsrád, Gack þann veg, sem hann vísar þér, Hvort vel edur illa fellur hér.

6. Audlegdar rán hefir allmargann A sínum vegi leidréttann, Sem glötunar fyrri géck. Þó stig Gæt ad, ef sama hendir þig.

7. Lát þig ei trega tapad fé, Tak þú heldur med þacklæte Vidleitni Guds og vísbending, Sem varna kann þinni fordæming.

8. Má ské, ef hefdir haldid þú Horfnu því fé, þig ángrar nú, Fyrir þess rángann fjársamdrátt, Fordæmdur hefdir vera mátt.

9. Barn sitt ef fadirinn fengi séd Fara dárliga vodann med, Skyldi hann lída lengi þad Léki sér þessum háska ad.

10. Sá vodi Mammon sannur er, Sínkliga ef þú med hann fer, Önd þína kann ad særa sá, Sé honum ecki vikid frá.

11. Aura nægd heims er eitur þad, Allmarga hefir forgiftad, Sértu frá þessu fári frí, Fagnadu gladur happi því.

12. Fari heimur og fýsn hans ill; Fari mitt góts, sem Drottinn vill; Í hjarta mínu hefi eg þig, Herra Jesú! þad gledur mig.

13. Virdínga missir, vina afsjón, Vellystínga og aura tjón, Annadhvort þér til æru var, Ellegar mér til betrunar.

14. O, kristinn madur! adgæt nú, Ef svoddan baga reynir þú, Hygg vel ad hvort hans hafir med Hrópligum glæpum tilunned.

15. En sé þad nú (sem uggir mig), Uppvekja láttu svoddan þig, Angur þitt þá fyrir aura hrun Ad ydrunar tárum verda mun.

16. Aura missir kann aldrei hér Angur svo frekt ad veita þér, Ad eylíft góts ei gledji meir, Gudliga ef þú lifir og deyr.

17. Hver sem, Drottinn minn! heldur þér, Heims eptir gædum ecki sér Fullríkur má vel segjast sá, Sal mín þeim heillum girnist ná.

18. Ad þér lifandi æ sé hér Og þér deyjandi veittu mér, Svo ad fagnandi þar hjá þér Þig sé prísandi um alder.

## 24. Sálmur.

**Vorn hug og hjarta skulum vér festa vid þau eylífu, en ecki þau stundligu audæfi.**

**Lag: Um daudann géf þú, Drottinn! mér.**

O, madur! hyra þarum þú, Þau kjor og gjorvoll

mæti, Sem hér í heimi hefur nú, Heilsu, fé, eptirlæti, Af Gudi er þartil géfid þér, Girnast svo ad þú kynnir hér Eylífligt sælðarsæti.

2. Sæll er sá madur, sem hér kann Sínu rétt gótsi ad haga, Sjaldsén er þó í heimi hann, Heldur mjög adrir klaga Yfir lánleysi líkamans, En leyna fátækt þess innra manns, Til hans ecki hyrdd og draga.

3. Vor dyrkeypt sála ædri er Öllu veraldar smídi, Henni því elska ecki ber, Of fallvallta heims prýdi; Í audlegd er ei hugarhægd, Hjá Christó líf og fulla nægd Fá hans saudir um sídir.

4. Þín líkamans augu líta féd, Lán heims og veraldar blóma; Hugskots augunum horf þú med Á himneskann dýrdarljóma; Hvorr þeirri skodun ecki ann, Aud þó hér hefdi nógligann, Tapadi hann sálar sóma.

5. Konúngsins dottir kristnin er, Christí unnustan hreina, Hid innra allann blóma ber, Beztu perlur, gimsteina; Fyrst þú hefir hid innra allt, Eptir hvorju hér leita skalt, Vantar ei vegsemd neina.

6. Fallvaltann láttu ecki aud Í augum svo gladt þér skína. Ad þad lifanda lífsins braud, Lagt fyrir sálu þína, Sjáandi ecki sjáir þú, Ó dar mun ecki betra enn nú Ad hyxa um hagi sína.

7. Sá sem í heimsins hefd og magt Huggunar vill sér leita, Og hjarta sitt hefir þartil lagt Holdliga ad vilja breita, Á sálunni aumur segjast má,

Sinnir hann lítt að næra þá; Slíkt má stór heimska heita.

8. Hvað dýrmætt er að heimsins síð, Og hér má í veröld finna, Allt reiknar Drottinn oflítið Í verðlaun barna sinna, Æðri gæði hann ætlar þeim Í þeim komanda nýa heim, Um ár eylífðarinnar.

9. Veraldar barna vellysting Við mig kémur því ecki, Umlíð eg glaður óvirðíng, Af því eg veit og þecki, Hvor þinn tilgángur, Herra! er; Himneski Faðir! veit þú mér, Að blíða heims mig ei blecki!

10. Hjartað mitt gleðst, eg hyxa á Himneskann dýrðar ljóma, Veraldar prjáli vikinn frá, Við þann fögnuð og blóma Gleð eg mig, nú þó gángi á mót, Guð minn! eg bið af hjartans rót, Veit mér þá sæld og sóma.

11. Um veraldar hefð eg hyrði ei par, Hafi eg þig, Jesú mildi! Unntu mér þinnar aðstoðar, Að elska það bezt er skyldi, Heims eptirlæti, auður og fé, Utan þar Drottinn meður sé, Allt er í öngvu gildi.

12. O, Jesú! þú ert auðlegð mín, Annarar eg ei leita, Géf mér að eign og arfleifð þín Eg megi líka heita, Og prísa í lífi þessu þig, Þá muntu síðar gleðja mig Í hóp þinna helgra sveita! Amen!

## 25. Sálmur.

Hvørnin menn skuli varast áhyggju, en treysta Gudi.

Lag: Mitt hjarta! hvartil hryggist þú.

O madur! heyr hvad Herra þinn Hefir lagt fyrir skara sinn, Af hvorjum einn þú ert, Vilsamur hann vill ei sért, Votta þad hans kénníngar bert.

2. Gudi einum og Mammon má Manna svo enginn hlýdni tjá, Ad bádum þóknist þeim; Gagnstædligum gudum tveim Getur enginn þjónad um heim.

3. Illa þig leikur andurinn, Utvel því Gud fyrir Herra þinn, Og hlýdstu honum ad, Af því ad Drottins ord blessad Öllu kémur vegliga af stad.

4. Öllum sképnum hann línkind lér, Lífinu minni fædan er Og líkama hulníng hans; Voldug augu verndarans Vel sjá fyrir naudsynjum manns.

5. Líf þér í fyrstu lénti hann, Líka svo medol finna kann, Hvarmed þig fái fædt, Því hvad fyrr gjordi getur hann klædt, Og grandvarliga naudsynjar bætt.

6. Himinsins fugla horf þú á, Hvorki uppskéra þeir né sá, En Drottinn allsherjar Fædir þá og forsorgar, Fær þér slíkt til íhugunar.

7. Aví! mitt hjarta ángrast nú, Aví! hvad veik er mannsins trú Skynlausum sképnum hjá, Nádi Herrann hormúng þá, Svo hér ad mættum forsjálir gá.

8. Fuglarnir urdu fyrri enn mann, Því fuglunum átti ad stýra hann, En hvad þad illa fer? Ad þeir betur honum hér Halda þad sem réttvíslígt er.

9. Hvarfyrir viltu, vinur minn! Víla svo mjøg um klædnadinn, Líttu á liljurnar, Svoddan prýdi sízt þó bar Salómon, þá ríkjandi var.

10. Þú veiktrúadi vita mátt, Víst muni Gud á betra hátt Forsorga þig enn þær, Øsku í dag en grøs í gjær Gud mun ecki hafa svo kær.

11. Áhyggja sízt því orka má, Ad álnar hærri verdi sá, Er hana ýdkar þrátt, Svoddan, madur! sjá þú átt, Sorgan allri vara þig mátt.

12. Heidinna manna art þad er Áhyggjusamur ad vera hér, Þarfyrir fellur sá Kristinndómi klárum frá, Er kvolar sig med búksorgar þrá.

13. Meinlostur þessi mjøg er jafn, Margir sem bera kristid nafn, Fyrir heimsins hála líst Falla í heidni, en forsmá Krist, Fá svo aldrei himnanna víst.

14. Alvaldann Fødur eigum vér, Umhugad lætur hann vera sér Um sinna barna braud, Hrefnum fyrr þau fæda baud, Enn sinna skyldu húngurs naud.

15. Fyrst hann sig nefna Fødur vann, Fødur hjarta býr yfir hann, Fullur med Fødurs ást, Sem elskhugum sínum aldrei brást, Ad því skulu børnin hans dádst.

16. Trúin vor besta audlegd er, Og hann sem

lætur nægja sér, Fullríkur sannast sá, En hinn, sem búksorg elur á, Aldrei kann þeim heidri ad ná.

17. Ókomnum degi (ord þad haldt) Aldrei þú, madur! kvída skalt, Hann sína umhyggju ber, Hvörs dags nægi þjáníng þér, Þú ert ecki ráðandi hér.

18. En þó er bonnud ecki sú Umhyggja, hvörri von og trú Ad fylgir; ydinn mann Prísar Gud, og gæda vann Gáfum sínum margfoldum hann.

19. Himneski Fadir! hondin þín Helgi og blessi verkin mín, Öll svo ad þóknist þér, Ahyggju mig illri ver, Öllu grandi forda þú mér!

20. Eg legg í þína líknarhond Líkamann bædi og mína ond, Treystandi á þig einn, Géf ad eg sé hjarta hreinn, Háski svo mig villi ei neinn.

## 26. Sálmur.

**Undir Guds blessan eru allir hlutir komnir.**

Lag: Ovinnanlig borg er vor Gud.

Sýng þú lof Drottni, sála mín! Sem þig af náð skapadi, Keypti sídan úr kvol og pín, Kvittun og frid bodadi, Og verndar enn í dag Allan þinn lífsins hag Af skærri elsku og náð, Allt blessandi þitt ráð, Sem nákvæmur fósturfadir.

2. Hann hefir sinni hendi í Himins og jardar gengi, Og med sképnunum skiptir því, Skynjad hvor um þad fengi, Hans blessan er þad allt, Æ

vid hverja þér haldt, Þó heimur hafni þér, Herrann þad veit og sér, Huggari er annar enginn.

3. Aví! hvad blindir erum vér, Optliga svo dæmandi, Ad andlegd sú, er oflum hér, Utvegum sé þackandi; Næring ef nóglig sést, Nád Guds vér treystum best, En skuli ofs skorta brátt, Skynjum vér hardla fátt, Umsjón hans orgleymandi.

4. Sannkristnum manni sómir því Sínum Gudi ad trúa, Og medolin vid hans ótta í Ahyggjulaust ad búa; O, madur! ei því gleym, Ad Drottinn rædur þeim, Treystu þau ecki á, Elligar þar ad gá, Ad hann kann ollu ad snúa.

5. Ef fátækur þú og aumur ert, Aungvu skyldir þú kvída, Ríkann þig Drottinn getur gjort, Girnist þú hans ad bída; Agar í eydi-stad Ein mátti sanna þad; Umbreiting eins fèck þá Eckjan í Sarepta. Sjá hér Guds blessan blída!

6. Gud skóp af ongvu efni þig, Attu þaraf ad læra, Ad hans alvitra voldugliq Vel kann þig enn ad næra; Og hann, sem allt til hér Umsorgun veitti þér, Enn kann um æfi þín Ad uppljúka hendi sín, Og þér fædu ad færa.

7. Blessadi Fadir! blessan þín Blessi verk handa minna, Vilja snúir og verkum mín Til vitnisburda þinna; Andligann auk mér plóg, Allt hefi eg þá nóg; Assjá í elsku mig, Og unn mér ad prísa þig, Um ár eylífdarinnar.

## 27. Sálmur.

Hvørnin madur skal haga sér vid adrar kross-þjádar manneskjur.

Lag: Ofan af himnum hér kom eg.

Þú skyldir, madur! minnast á Málsgrein þíns Herra, og vel ad gá Hvad þú girnist ad gjert sé þér Gjera náúnga þínum ber.

2. Hvørnin þad gángi heimi í Helzt er klagandi yfir því; Ef luckan sér frá einum snýr, Ástvina dygdin líka flýr.

3. En þú sem girnist Guds þíns nád, Geym þú þessi hans Sonar rád, Skodandi hvør þín skylda er, Skuli þinn bródir reynast hér.

4. Attu í fyrstu ad elska þann Adstodarlausa veika mann, Hjarta þitt til hans ljóst og leynt Lát vera af ollum kala hreint.

5. Viti hann sig kærann vera þér, Veikri mannkind þad huggun er, Til harmanda ógéd ei hafdu neins, Hvør veit nema þú verdir eins.

6. Ordunum skaltu einnig med Aumkvunarsamt þitt birta géd; Hugga þíns bródurs særda sál Og setja honum fyrir gudligt mál.

7. Aumkadu hann med andsvar þeckt, Er honum þad til líknar frekt; Sá kristnum ecki samharmar, Sannkristid hjarta ecki bar.

8. Í þridja máta aldrei gleym, Elskunnar verk ad sýna þeim, Sem Herrann undir sinn kjori kross, Krefur þess Gud af ollum oss.

9. Renn þínum hug til ríka manns, Ráð er að forðast víti hans, Lazarum fyrirlíta vann, Í loga eylífum sjálfur brann.

10. Sjái fullríkur fátækann, Fjár má ölmusa gleðja þann, Hrumann ef líta heilbrygðir, Til heilsunnar styrkja aptur ber.

11. Við þíns náúnga mikið mein Mannhjálp ef ekki stoðar nein; Ástríkum huga áfram haldt Og fyrir honum biðja skalt.

12. Ef þú svo annast aumann hér Og hans nauðsynjum fyrirsér, Ástverk þitt mun ei ólaunað, Endurgjalda vill Drottinn það.

13. Veitt og géfinn hann vill þér sé Vernd og blessan á jörðunne, En síðar meður útvöldum Æra og gleði í himninum.

14. Hinir sem ekki hura um það, Herrans bræðrum ei sinna par, Elskunni gagn sitt meta meir, Morðíngjar réttir eru þeir.

15. Þeir munu líka laun sín fá, Lazarí bræðrum skildir frá, Utsnaraðir í eylíft bál, Urskurðar svoddan guðligt mál.

16. O, Jesú! géf oss anda þann Í elsku við þig og náúngann, Munn, hönd og hjartað hreintrúað Hjá oss sem láti fylgjast að.

## 28. Sálmur.

### Hvørnin vér skulum haga oss við Guð að krossinum afstøðnum.

Lag: Heiðrum vér Guð af huga og sál.

Mín sála! Drottni þakka þú, Þinni hörmúng sem

létti nú, Fagnandi skaltu fús til þess, Frelsunin kref-
ur þacklætis, Fyrir endurlífgunar háleitt hnoss, Af
hjarta ber nú ad segja oss: Lof sé þér, Gud! fyrir
lidinn kross!

2. Veraldar born þá harma hér, Heita vein-
andi fyrir sér, Margur þá losa miklu vann, Minna
vard af, þá frelstist hann, Ad heita Gudi, en
halda sízt, Hvorjum manni til syndar snýst, Þad
skulu Gudsborn varast víst.

3. Af ýmsu boli hreinsast hér, Hvad margir
tíu forspilter? Þeirra á medal ei nema einn, Apt-
ursnýr, þó hann verdi hreinn; Svo fer oss midur
enn Samverskum, Sem þó réttkristid nafn berum,
Guds vors reidi svo uppegnum.

4. Oþacklátur ef ertu nú, Ástgjafir Drottins
hindrar þú, Sem hann þó annars hefdi sendt;
Hinn sem þackar sér ádur lént, Gudligann orleik
orfar sá, Ad því, mín sál! í tíma gá, Þegar horm-
úngin hverfur frá.

5. Eins líkaminn og sálin sé Samlynd i hjart-
ans þacklæte, Allir limir þíns líkama Lof Drott-
ins skulu vegsama; Hver þér hjálpa med verki vann,
Í verkunum skaltu prísa þann, Túnga þín skal og
tigna hann.

6. Þú skalt vita ad þacklæted, Þar nema ydran
fylgi med, Og leidrètting þíns lifnadar, Lítt orkandi
hjá Gudi var, Er þad honum sem annad gis, Afl-
audi hefndar rèttlætis, Tvofaldast þá þitt fyrrá slis.

7. Hafi Gud mínum harmi og pín Hægt ad

ad nádugum vilja sín, Mér skal vera þad máltæki Í munni og hjarta vakandi; Lifandi Gud mig leysa vann, Lofa og dýrdka vil eg hann, Bædi um heim og himna rann.

8. Ad þínum krossi endudum, Ødrum hjálpadu naudstoddum, Set þeim fyrir þá sömu nád, Sem þinn betradi hag og rád, Eins vægir Drottinn þeim og þér, Þeir ef hans bída stoduger, Sæll er sá madur þad gjörer.

9. Í þridja máta þad minnstu, Þann kross, sem burt er horfinn nú, Alla tíd lífsins eptir þad Æ lát vera þitt minnisblad, Syndina ad varast vel þín gá, Veroldu gleyma, hold ad þjá, Og himnaríki ad hyra uppá.

10. Ef þú nú syndgar upphédan, Annad verra þig henda kann, Þessu ef sporna vildir vid, Víst er þér gudligt fulltíngid; Hérum af hjarta einnin átt Andvarpandi ad bidja þrátt; Syng því fagnandi á svoddan hátt:

11. Herra Jesú! eg heidra þig, Hefir þú ként í brjósti um mig, Send mér nú þína sætu nád, Svo eg kunni mitt bæta rád, Ad minn lifnadur þóknist þér, Þér svo eg gladur lifi hér, Gud minn blessadur um alder! Amen!

## 29. Sálmur.

**Hvørs vér høfum oss ad vænta ad krossinum endudum.**

Lag: Fadir á himnahæd!

Gled þig, mín sál! og sjá Sælu og hátign þá,

I hvorja um leid stránga Inn fáum vèr ad gánga.

2. Guds einka elsku-Son Oss gaf þá sældar von, Fyrst vèr hans frelsis bídum, Forgèfins ecki lídum.

3. Hann hefir heitid oss, Hèr sem nú lídum kross, Himneskrar sældar sæti, Sóma og eptirlæti.

4. Himnesk er hátign sú, Hvor skyldi ecki nú, Fyrir svoddan sælu strída, Sorg og hormúngar lída.

5. Sancte Páll segir bert, Samjafnadar ad vert, Sè ecki sitt mótlæti, Vid svoddan fegurdar mæti.

6. Gledjist því grátnir menn, Gledjist, þad segi eg enn; Ydar ángrudu gèdi Umsnýr Jesús í gledi.

7. Litla stund lídum vèr Litla armædu hèr; Eylífdin eptirkèmur, Allt þetta burtu nemur.

8. Hún gledur heyrn og mál, Hún kætir líf og sál, Þá skal um eylífd alla Aldrei nein sorg tilfalla.

9. Hendi mig hugraunir, Hrósa vildi eg meir, Af því eg veit sá vegur Verdur mèr bæriligur.

10. Oll mun hans endíng góð, Af því ad Lambsins blód Sálann mun sigur gèfa, Sízt vil eg þarum efa.

11. Hvor kristinn kýs ad fá Kórónu Drottni hjá, Til hennar verdur ad vinna, Vilji hann sældir finna.

12. Hvor sem hèr verold vann, Virda mun Drottinn hann Ovaltrar æru sætis, Og kórónu rèttlætis.

13. Kóróna kallast nú, Kjer, tign og prýdi sú, Vér hvorja í vonum eigum, Vita svo þaraf megum.

14. Oss Jesús ann til sanns, Erum vér brúd-ur hans, Þá mun vor hefjast hagur, Hátign og brullaups dagur

15. Erum vér ordnir þar Andligir konúngar, Héraf kóróna heitir, Heill sú oss Drottinn veitir.

16. Krýndir vér verdum þar, Vidlíkt og sigr-arar, Ur kífi komnir erum, Kórónu dýrdar berum.

17. Osegjanligast er, Allt hvad þá medfylger, Heilsa, líf, blída, blómi, Blessan, kraptur og sómi.

18. Sjá þú nú særdi mann, Hvad sæta endíng fann Sællra Gudsbarna grátur, Sæt þess og vertu kátur.

19. O, Jesú! untu mér, Ad strída þanninn hér, Ad dýrd og hátign hreina Hjá þér fái eg ad reyna! Amen!

## 30. Sálmur.

### Um farsæld eylífs lífs.

Lag: Heill helgra manna.

Eya! mig gledur Eylífd frid bodandi, Sú von mig sedur, I sorgum hér þreyandi, Utvoldum medur, Augunum rennandi Af heims hrygdar landi.

2. Er þar uppskéra Eylífs háfagnadar, Dýrd-ar vís vera, Vegsemd há alstadar, Sigurlín bera Sálir heimkalladar, I Gudi gladar.

3. Þar er sæld, sómi, Samlyndi og fridur

Blessan og blómi, Born sín Herrann stydur; Sá lífsins ljómi Leggst þó aldrei nidur Utvalda vidur.

4. Þar mun eg skoda, Þig, minn Herra sæti! Vidskilinn voda, Vasinn eptirlæti, Sú sjón mér bodar Sálar ædstu kæti, Og böl allt bætir.

5. Hér sína reynda, Sem þá fagurt ljóma, Vel sær þar greinda Veran guddóms fróma, Þá vér og leynda Peckjum Herrans dóma, Med sælum sóma.

6. Andlit Guds blída Allir vér þar sjáum, Horfin er strída, Hofn þá lífsins náum, Öngvu er ad kvída, Allt þar líta fáum, Pad sem nu þráum.

7. Englarnir skína, Oss þar samfagnandi, Hvor mun þar sína Hjartans lyst fremjandi, Utrymd er pína, Eya! samsyngjandi, Geymdir frá grandi.

8. Ond vora kætir Asján Guds blídasta, Hvorskyns medlæti Hofum þar sælasta, Angur upprætir Engla raust sætasta, Og ást yndælasta.

9. Þá mun líkami J ljósi fegru glansa, Hreinn, sómasamur, Syngja, spila og dansa, A þeim háframa Oss mun sjálfa stansa, An víls og vansa.

10. Oútskíranlig Eru þessi gædi, Og ómissanlig Ollum þeim sem nædi, Mjog gledimannlig, Morg og eylíf bædi, Sem helg herma frædi.

11. Allt uppfyllandi, O, minn Jesú gódi! Kom lid leggjandi Leystum pínu blódi, Munnur og andi Minn jafnan samhljódi, Og lof þitt ljódi! Amen!

# Fimmtíu

# Hugvekju = Sálmar

af

Síra Sigurdi sál. Jónssyni.

# 1. Sálmur.

Um rétta þekking Syndarinnar.

Lag: Haldt oss, Gud! vid þitt hreina ord.

O! Gud heilagi Herra minn! Hefi eg aumur þræll-inn þinn Synda eitur svo inn druckid, Eins og jord vatni tekur vid.

2. Víst er mín synd úr máta mjog Merg úng, gomul og svívirdilig, Enn þín reidi sá eldur er, Ogudligum sem fortærer.

3. Réttlætid allt sem orkad gat, Er sem blód-sjúkrar kvinnu fat, O! hvad ránglætid íllt og frekt Er þá fyrir þér svívirdiligt!

4. Ljósid medan í myrkri er, Mikla byrtu þad gëfur af sér, En þegar sólin á þad skín, Alla missir þad geisla sín.

5. Eins er þad margt í athofn manns, Ad áliti hædsta dómarans, Ofullkomid og einskis vert, Er vér þó meintum heilagt gjort.

6. Hvar mun eg aumur frelsi fá? Þó flýja vildi eg í himininn há, Þá er þar fyrir utan ef, Er eg svo tídum styggdann hef

7. Á jordu er hvorgi hæli hér, Herrans skepn-

ur þær mýja mér, Með því eg hefi móðgað hann, Minn og þeirra Guð skaparann.

8. Afokun heims er horð og stór, Himin, lopt jorð, vatn, eldur, sjór, Englar, samvitska, Satan senn, Og sjálfur Guð klagar vonda menn.

9. Hver má við slíku reisa rond, Réttlætið stár á aðra hond, Þegar allt þetta amar að, Ecki er sýnt um griða stað.

10. Glæpugum þeim, sem girnast náð, Gefur Salómon heilnæmt ráð, Í bjargskorum sig feli fljótt, Flýja vil eg nu þángað skjótt.

11. Bjargið það sem hann segir hér, Sjálfur Jesús vor Drottinn er, Skorurnar eru undir hans, Í þeim er hælið syndugs manns.

12. Líssins uppspretta er það ein, Oll kann sú græða dauðlig mein, Svala dryck finnur þyrstur þar, Þvotta-laug hinn sem óhreinn var.

13. Þar vil eg koma þjáður þræll, Þar vil eg felast, Jesú sæll! Meðan Guðs reiði framm hjá fer, Flý eg til þín, þú tak við mér.

14. Ecki þarf eg að óttast þar Áklögun Guðs og sképnunnar, Sá er frá allri ánauð frí, Undum Drottins sem hvílist í.

15. Herra Jesú, minn hlífðar múr! Hjálpa mér ollum vánda úr, Tak mig í þína opnu und, Og annastu mig í dauða stund.

## 2. Sálmur.

**Um idkan idranarinnar af Herrans pínu.**

**Lag:** O! mín sála uppvakna nú.

Sjádu og hugleid, sála mín! Sára og beiska Jesú pín, Sjádu hans mædu megna, Kvalanna stærd og ofraun af Ondina upp á krossi gaf, Pad leid hann þinna vegna.

2. Sjádu hér þinna synda stærd, Sjá þú hvad mikid kosta vard, Sár þín og sjúkdóm græda, Gud lídur sjálfur grimma pín, Gud úthellir hér lífi sín, Gud kvelur margskyns mæda.

3. O! hvad banvænligt er þad sár, Par eckért annad til grædslu stár, Enn barskérans blód úr ædum, O! þá kynja stærd kránkleikans Kostadi dauda læknarans, Guds þó á himna hædum.

4. Þú, kristin sála! sjádu hér, Syndinni svo Gud reidur er, Pó hans Son sátta bædi Fødur sinn kærann fyrir oss, Fallna í synd og daudans bloss, Guds þó ei rénar reidi.

5. Hann tók þá á sig horund manns, Helgandi svo náttúru hans, Ad synda eitri eydi, Hann þá samteingdi holdid vid Heilagasta sitt réttlætid, Guds þó ei rénar reidi.

6. Allt þángad til hann á sér bar Illgjerd og syndir veraldar, Kvalinn á krossi deydi, Hann lét út pressa líf og blód, Ad leysa og græda heimsins þjód, Guds þá rénadi reidi.

7. Hád, sleg, sár, bríxl, Og heljar neyd,

Hrakníng og smánir Jesús leið, Blessaður í bond-um þreydi, Faðirinn leit þá sáru sút, Sál og líf hans þá blæddi út, Guðs þá rénaði reiði.

8. Hann sem heilagur híngað kom, Hlaut að líða svo stránganna dóm, Særður með svoddan hætti, Sá sem kémur með synd í heim, Síðan lifir og deyr í þeim, Titrandi ydrast ætti.

9. Hræðast og skjálfa sképnu ber, Skapara sinn því hefur hér Krossfest og kvalið bæði, Þræll-inn má þetta óttast eitt, Að hann hefur sinn Herra deydt, Syndugur helgann hrjáði.

10. Christus líðandi kvöl og deyð Kallar til vor í sinni neyð, Látum oss honum hlýða, Synd-ug manneskja sjá þú mig, Sannliga hlýt eg fyrir þig Svoddan saklaus að líða.

11. Særir mig eitt og svíður mest, Sé eg og veit að þjóðin flest Mína pín acktar eigi, Ópack-lætið, sem almennt skér, Allri kvöl þýngra fellur mér, Á mínum andláts degi.

12. Heyrðu nú svoddan, sála mín! Sértu þacklát í Jesú pín, Með ást og ydran heita, Synd-anna verkum sjáðu við, Sær þú ei framar Drottinn Guð, Né hann til reiði reita.

13. Miskunar Faðir! miskun þín Miskuni oss fyrir Jesú pín, Og helgi vor hjörtu kramin, Jesú! þín bæn og benja foss Bót og lífgun sé öllum oss, Amen, o! Jesú, Amen!

# 3. Sálmur.

**Um ávöxt sannrar ydranar.**

Lag: Sá frjáls vid lögmál fæddur er.

Syndugi madur sjá ad þér, Sál þín svo hólpin verdi, Eylíft líf byrjar hver sá hér, Hreina ydran sem gjördi.

2. Hvar sú hin hreina ydran er, Er þar og kvittun synda, En sú kvittun hún aflar sér Elsku Guds til mannkynda.

3. Hvar Guds ást er og hylli hans, Hans Sonur er þar medur, Í honum bót á misgjörd manns, Manns samvitsku þad gledur.

4. Hvar samvitskan er gled og gód, Guds andi býr þar inni, Og helleg brenníng sem hjálpar þjód, Med hollri lífgjöf sinni.

5. Því fá þeir allir eylíft líf, Sem yferbót synda vinna, En andar tjón og eymda kíf Ydrunarlausir finna.

6. Drottinn þar uppá dó á kross, Ad deyja syndin mætti, Látum því ecki lifa í oss Lesti med vondum hætti.

7. Sálar daudinn andligur er, Illgjörd og syndin manna, Undan drogum því ecki vér Ydrunar verkid sanna.

8. Aumur er sá, sem ecki kann Illgjördum bót á vinna, Sjálfann Gud frá sér fælir hann, Med fylkíng engla sinna.

9. Syndin styggir Guds anda út Af musteri

vors hjarta, Eins og býflugur flýja braut, Ef finna reykinn svarta.

10. Svo sem Gud framar öllum er, Einn hlutur sá hinn besti, Eins er og víst í sjálfri sér Syndin vor hinn sá vesti.

11. Nú þó syndir, sem vinnum vær, Víst stórar heita meigi, Ef ydrun breidist út yfir þær, Augu Guds sjá þær eigi.

12. Med því þú safnar synda fans, Sífellt og marga vega, Ydrunar tár þíns innra manns Afþvoi þær dagliga.

13. Géf mér, Herra! í hjartad mitt Hreinann ydrunar anda, Svo ad mín sál af syndum kvitt, Syngi þér lof án enda.

## 4. Sálmur.

### Um þad sæta Jesú nafn.

Lag: Jesús Christus á krossi var.

O Jesú! nafn þitt ilmsætt er, Alla miskun og frelsi lér, Því bid eg þig, minn Jesús! Vægdu og líkna veikum mér, Og vertu mér Jesú Jesús.

2. O! hjartans unun innilig, Elsku þinni bígáfa mig, Girnd mín og gledi Jesús, Fyrir mér ecki feldu þig, Fyrst þú ert Jesú Jesús.

3. Miskunar tíminn medan er, Miskuna þú og líkna mér, Miskunar mergdin Jesús! Miskunar tíminn þegar þver, Þá vert þú mér Jesú Jesús.

4. Orími verdur ecki neitt, Í þó miskunar sáng-

id breidt Mig takir mildi Jesús, Sála mín er af syndum þreytt, Sért ockur Jesú Jesús.

5. Öll sálar fæda of þurr er, Utan med bland-ist þad vidsmjor, Sem ertu sæti Jesús, Svoddan krydd minni sálu ber, Sért henni Jesú Jesús.

6. Synda eitur eg sogid hef, Satan hlýdandi vondsku ref, J'þinni augsýn Jesús, Trúi eg þó fyrir utan ef, Ad ertu mér Jesú Jesús.

7. Uppruna synd, sem erfda eg, Aklagar mig og þrengir mjøg, J þinni augsýn Jesús, Þó hún sé stór og svívirdilig, Samt ertu mér Jesú Jesús.

8. Fædíng og gétnad fleckar synd, Fordæman-lig er sképnu kind J þinni augsýn Jesús, Þó saurg-un fylgi svoddan mynd, Samt ertu mér Jesú Jesús.

9. Satan oss jafnan svikid fær, Syndir dag-liga gjorum vær, J þinni augsýn Jesús, Svívird-iligar þótt séu þær, Samt ertu mér Jesú Jesús.

10. Þó ad eg sóma svipti mig, Samt kann eg ecki ad sneida þig Mikilli miskun Jesús, Eptir því hún er æfinnlig, Oss ertu Jesú Jesús.

11. Svo sem mér harla hægt var þad, Ad hrapa í eymd og kvala stad, Frá þér, Frelsarinn Jesús! Veit eg svo hægt þér vinnur ad Vera mér Jesú Jesús.

12. J lífi, deyd og dómsins hríd, Dagliga og um allann tíd, Vertu mér veikum Jesús, Fyrir þinn dauda fár og stríd Frida mig Jesú Jesús.

13. Minnstu ei svo á syndir mín, Ad sjálfur

gleymir þú miskun þín, Heilagi Herra Jesús! Sálar lífgun og saðníng sín, Sértu mér Jesú Jesús.

14. Að lifa og deyja, Lausnari minn! Líka koma fyrir dóminn þinn, Þóri eg því, minn Jesús! Í þínu nafni eg frelsi finn, Fyrst þú ert Jesú Jesús.

15. O, Jesú! fyrir þinn unda foss, Alla kvalníng og deyð á kross, Og náðar nafn þitt, Jesús! Annast þú lífs og liðna oss, Lof sé þér Jesú, Jesús!

## 5. Sálmur.

### Um trúarinnar iðkun.

**Lag:** Sæll ertu sem þinn Guð.

Drottinn eg aumur er Í hurun minni, Opt gjöri eg órétt þér, Og pínu þinni.

2. Gæt eg það góðverk mín Glæp bæta eigi, Svo sem synda bót þín Sízt nægjast megi.

3. Læst eg svo leggja á Lappann góðverka, Forþénan þína þá, Þrautar nóg sterka.

4. Hver sem sig heilagann Hér fundið gæti, Hvað þyrfti að hura hann Um Herrans réttlæti.

5. Undir náð erum nú, Ekki lögmáli, Sjáum til svoðan trú Syndin ei brjáli.

6. Hátt upp í himininn, Heilagi Fader! Syndgað hef eg sonur þinn, Svívirðiligt það er.

7. Aumur eg ekki má Arfi þinn heita, Virðstu mér þrjóskum þá Þræls nafn að veita.

8. Ofug er syndin sú, Sem mig vill pína, Lát hana lokfins nú Lífinu tína.

9. Holdsins ill ysirráð Um sidir linni, Og missi afl og dáð, Andinn svo vmni.

10. Eg hefi heimskur mann Hyllst Satans œdi, Unn mér að óvin þann Eg sigra nœdi.

11. Otta víst undir bjó, Ogn dauða kíssins, Ills endir er hann þó, Og inngángur lífsins.

12. Nær lífið uti er, Öll meinin þverra, Þá mun eg þócknast þér, Þú góði Herra!

13. Öll syndin er þá kvitt J himna sœti, Einn Guð því ertu mitt Einka réttlœti.

14. Dauðann ei óttast nú Né eymdar kífið, Hœdstur ert, Herra þú! Heill mín og lífið.

15. Sál mín af syndum kvitt Sjá mun þín mœti, Boðin í brúdkaup þitt, Brúdguminn sœti!

16. Þá reyni eg það og finn, Að þú ert mér bœði Blíðasti brúdguminn, Og brullaups klœði.

17. Eg hefi íklœdst þér, A skírnar degi, Sá skrúði skýlir mér, Skaðar synd eigi.

18. J skœrum skrúda þeim, Skal eg framm gánga, Þá Drottinn dœmir heim, A degi stránga.

19. Dýrdar skart skal oss þar Skínandi géra, Hvert oss til eylífdar Audnast að bera.

20. J sanna sœlu dýrd Senn leið oss Herra! Sú lofgjerð sé þér skírð, Sem ei má þverra, Amen!

## 6. Sálmur.

**Um huggun þess ydrandi í Christí pínu.**

**Lag: Konúng Davíð sem kénndi.**

Allur syndugs manns sómi Sannliga fólginn er,

Í því Frelsarinn frómi Að forsmáður varðstu hér, Og þjáður þúngri pín, Dauði þinn er líf lýða, Lækníng og huggun fríða, Hóp mitt og huggun mín.

2. Þú einn Guð allra lýða, Eg gat þig móðgað víst, Enn þig aptur að þýða Orka kunni eg sízt, En fyrir Christi kross, Er oss nú ordinn friður, Af því þig sjálfann vidur Sættir þú seka oss.

3. Sjá nú þá særíng megna, Sonur þinn líða hlaut, Fyrirgéf það þessvegna, Þrællinn illur sem braut, Drottinn miskuna mér, Synd mín er sandi fleiri, Samt er þín náðin meiri, Þvíað hún eylíf er.

4. Ef að eg ecki játa Illverk og synda þrá, Þá kann í eingvann máta Aflausn þeirra að fá, En ef auglýsi þær, Sár svívirdiliga skarta, Særandi kramið hjarta, En samvitskan felmtur fær.

5. Haldtu því ecki inni Ast þinni, Fadir kær! Né náð í naudsyn minni, Nákvæmd allri mér tær, Minnstu mískunar þín, Reidstu mér aumum eigi, Af því þú hefur sleigið Son þinn fyrir syndir mín.

6. Hver munu aums úrrædi, á reikníngsskapar tíð, Þá senn adsækja bædi Syndin og réttlætið, Sitt stár á hverja hlid, Undir Andskotans hreidur, Uppi Dómarinn reidur, En samvitskan svipt er frid.

7. Verold er oll í loga Umhverfis manninn þá, Hverninn má hræddur voga, Í Herrans augsýn framm gá? Ei heldur falist fær, Hvad er þá helzt til ráda, Hver vill þá sálu náda, Hvar mun þá hvíldin vær?

8. Hver er sá einn sem heitir Engill hins mikla ráðs? Aumum vidtoku veitir Verndarinn lýðs og láðs, Jesús það eflaust er, Milli hans hjálpar handa, Hræddur mun eg þá standa, Hans fullting hlífir mér.

9. Sál mín! þín góð trú glædist, Gled þig og fagna nú, Uppá þann er þú hrædist Okvídin vona þú, Vert ecki örvæntin, Frá þeim sem fyrri flúdir, Flýdu nú á þess nádir, Hann reynist þér hollur vin.

10. Minn Gud! eg má það játa, Mikil er syndin mín, Þó er í allann máta Enn meiri nádin þín, Oll mín von í þér stár, Géf þú eg glatist eigi, Géf ad þig lofa megi Hér og um eylíf ár! Amen!

## 7. Sálmur.

### Um ávöxt Christí pínu.

Lag: Fadir vor sem á himnum ert!

Þá Herrans Jesú harda pín Hugleidi eg med med krapti sín, Eykst þá mín trú og eflist best, Um það tvent sem mig vardar mest, Ast Guds til mín, og annad hitt, Afbrotin oll eg fæ vel kvitt.

2. Þegar minn Herra héck á kross, Hneygdi sinn munn ad kyssa oss, Arma útbreiddi báda senn, Baudst til ad fadma alla menn, Hann lauk upp sínum hondum tveim, Ad hjálpa og audga oss med þeim.

3. Hann lét því opna sídu sín, Svo þadan

streymdi lífgjøf mín, Og ad hans heita hjartans þel Hægra sé oss ad skoda vel, Hans sár eru af ofraun blá, Ást veldur því þau ljómar á.

4. Látum oss í hans opnu und Ingánga því med gladri lund, Skodum hans heita hjartans ást, Hver oss syndugum aldrei brást, Í hans sárum er nádar nægd, Nóg endurlausn og allskyns hægd.

5. Af fimm líkamans limum hans Lagadi blód til syndarans, Hondum, fótum og sídu senn, Svo þad lífgadi alla menn, Og þad signada sára flód Syndir þvægi af allri þjód.

6. Hann var hrakinn med þángri þrá Þrásamliga hann Júdar slá, Slá þeir gadda í holdid hans, Hans blód útkreysti syndin manns, Manns hendur Gudi unnu á, A honum margskyns kvelling lá.

7. Hann stríddi daudann hardann vid, Hann svo oss veitti andláts frid, Hann var sakfeldur her á jord, Hans born svo yrdi saklaus gjord, Hann lét sig slá med heipt og foss, Hann svo áklogun fyrrti oss.

8. Hann stundi hátt med harma-kvein, Hann svo oss bætti eylíft vein, Hann bar á sínum herdum kross, Hann svo þýngd allri létti af oss, Hann var deyddur og hrakinn senn, Hann svo lífgadi alla menn.

9. Svo sem þá vínber of-þýngd af Alla vega sinn log útgaf, Eins pressadist vors Herra hold, Hrundi hans dreyri nidur á fold, Undan þýngd alls heims illgjordar, Og reidi Guds, sem Jesús bar.

10. Svoddan gagn fær þú, sála mín! Afjsárum Jesú og beisku pín, Handskrift sem oss var móti mest, Med sér hefur á krossinn fest, Hans blód hana afþvodi þar, Í þíng-húsi Guds sem ritud var.

11. Vertu því gladur mæddi mann, Manna hjálp alla Jesús vann, Ef stór eru þín synda sár, Sár hans eru þér lækníng klár, Hans blód þad edla umsal er, Sem alla græðíng veitir þér.

12. Andlát þitt, Jesú! og þín pín, Allra meina sé bótin mín, Í lífi og dauda athvarf allt, Æfinliga mér vid þig haldt, Þú heilög þrenníng hýr og og blíd! Haldist þitt lof um allann ríd! Amen!

## 8. Sálmur.

### Um fullvissu vorrar sáluhjálpar.

**Lag:** Lifandi Drottinn líkna mér.

Gled þig, mín sál! og gæt þú ad Gud skapara þínum, Mundu hans nád og minnst á þad, Þá myndadi hann þig í leynum, Adur þegar varst enginn þú, Umhyggju bar hann þína; Eginn mynd hans ert ordinn nú, Ei kann hann þér því týna, Hann annast alla sína.

2. Nú þó ad vísu syndug sért, Svo Guds mynd hafir tapad, Hann sem af engvu gat þig gjört, Getur þig endurskapad, Sá sem þig skóp án synda flekks, Saurgun þína kann bæta, Og illsku rót,

sem í þér ver, Alla í burtu ræta, Að því skallt gjörla gæta.

3. Hjá Guði erum líkt sem leyr, Leyrpotta smiðs í hendi, Um æfi finnast eingvir þeir, Sem eru sín verk hatandi, Skyldi hann þar til skapa þá, Sképnu kind sína manninn, Handaverk þau að hata og slá, Og hrekja í djöfla ranninn, Sál mín! ei þenktu þanninn.

4. Víst er sköpun og myndin manns, Mikið Guðs ástar merki, Enn gjör vottast þó elskan hans Af endurlausnar verki, Aldrei gyrnist þú glötun mín, Góði hyrðirinn sauða, Fyrst að þú þoldir þúnga pín, Þig gafst í píslog dauða, Til lífs og lausnar þjóða.

5. Sál oss frið-keypti Föðurinn við Fullnaðar dýru verði, Annast oss nú og leggur lið, Líf vort svo enginn skérði, Þetta tilflugt ei verður valt, Veldur því það eg ségi, Sú náðar gæðskan gnæfir allt, Guð fyrir þrælinn deyi, Sál mín! því efast eigi.

6. Vér erum, Guð! þín óska born Og arfar að himna vistum, Svo elskar þú nú sérhvern vorn, Sem Drottinn Jesúm Christum, Náð og uppfylling eylífs lífs Oss géfst í Syni þínum, Uppspretta góðs og endíng kífs, Uppgjöf á synd og pínum, Gleðst eg í Guði mínum.

7. Hverninn kann sá að hata mig, Helför mína sem bætti, Og gaf í dauðann sjálfann sig, Svo að eg lifa mætti, Þó óvinir allir mýji mér, Mína sál forklagandi, Jesus mitt hóp og hæli

er, Helgun og lausn frá grandi, Trú mín því stöð-
ug standi.

8. Lof sé þér, Fadir! fyrr og síd, Fyrir þinn
Soninn kæra, Og þér, Jesú! sem leystir lýd,
Líka sé dýrd og æra, Svo helgum anda sama veg
Sanna vegsemd skal gjalda, Þú eining þrenning
ódaudlig! Unn mér þinn prís margfalda, Hér og
um aldir alda.

## 9. Sálmur.

### Um það, ad vér skulum elska Gud mest.

**Lag:** Dreckum af brunni nádar.

Rís upp rétt kristinn sála, Rádholl ad læra, Stund-
liga hluti hála Ei haf þú kæra, En þann ypparsta
góda Elska og stunda skallt, Hvers nægdar gædskan
fróda Gott inniöindur allt.

2. Uppsprettan alls hins góda Er hjá Drott-
ni, Honum átt ást ad bjóda, Svo aldrei þrotni,
Skapada sképnu neina Skallt ecki elska þú, Því eng-
vann ástar beina Aptur þér géldur sú.

3. Þeim áttu ellu ad tæra Ástar gengi, Er
þig hafdi þá kæra, Er þú varst enginn, Þá hann
til reidi reittir, Rafandi tídt og þrátt, Syndsam-
lega svo breyttir, Samt elskadi hann þig dátt.

4. Hjartans ununar ardur, Um innstu reita,
Og andar aldingardur Má elskan heita, Hún
útilokar heiminn Af hjarta mannsins best, Satan og
synda keiminn, Sigrar og grædir flest.

5. Hún læsir Djofla dýki, Og dádir eykur, Hædsta himna-ríki Hún upplýkur, Ast er utvaldra merki, Ecki til hjálpar sein, Ut af elskunnar verki Auglýsist trúin hrein.

6. Ef sálin elskar eigi Þann ædsta Góda, Dauda ad sennu seigi, Og sómasnauda, Yndis hægd engva hefur, Og engin róligheit, Ugglaust í synd-um sefur, Sitt hjálpar-ráð ei veit.

7. Gudi því áttu ad unna Af ollu hjarta, Engvar ýdjur kunna, Aedra ad skarta, Ef þú upp-byrjar eigi, Ad elska Drottinn hér, Upp frá þeim effta degi Ecki veitist þad þér.

8. Sviptu mig synda galla, Minn sæti Herra! Og bannada elsku alla Lát í mér þverra, Géf ad þér einum unni, Og elski hjartaklár, Svo ad eg sídar kunni, Ad sjá þig um eylíf ár, Amen!

## 10. Sálmur.

### Um vora fridþægíng.

Lag: Mitt hjarta hvar til hryggist þú.

O! hvad mikil er miskun sú, Minn Jesú! sem oss veittir þú, Sjúkdóm vorn sjálfur barst, Fyrir heim-sins syndir særdur varst, Sveid þér und en hjartad þitt skarst.

2. O! þau vilkjor og býti best, Ad barstu rétt-látur straffid mest, Ránglátur fann þó frid, Heilag-ur tókst þú hegníng vid, Hinn syndugi féck þá grid.

3. Þú tókst á þig hid vesta vort, Var þad synd-

in sem hofdum gjort, Þitt besta þú gafst oss, Það var lífið og lausnar hnoss, Leidstu sjálfur daudann á kross.

4. Og nú með því þín elskan mest A sig tók það, sem vort var verst, Bestu eign bjóðum nú, Líkami vor og sál er sú, Svoddan hnoss er girnist þú.

5. Hefdir þú ecki, Herra trúr! Hjálpað ránglátum dauda úr, Og keypt hann kvolum frá, Pína réttláta furdu fá Fundið mundir hafa þá.

6. Fadirinn hefur hefnst á þér, Hverskyns synda sem gjordum vér, Því sést oss þrælum vægd, Það er þér, sál mín! sinnis hægd, Að Synd er kvitt, En reidi Guds lægd.

7. Hverninn kanntu þá, Herra kær! Að hefnast á oss fyrir syndir þær, Sem að þú sjálfur barst? Sálin þín af sorgum skarst, Að synd fyrir oss þá gjordur varst.

8. Enginn hefur nú afl né vald, A oss að leggja hefndar gjald, Utan einasti hann, Fyrir vor brot, sem borga vann, Og búinn er að fridkaupa mann.

9. Gled þig, mín sál! við sannleik hans, Er syndugs vill ecki dauda manns, Að eylífu seigir hann satt, I þeirri trú þú stodug statt, Sterka trygd hann við þig batt.

10. I Guds metaskál miskun er, Miklu þýngri þá vigtum vér, Heldur enn alls heims synd, Sértu aldrei svo, sál mín! blind, Að svoddan huggun tapir í vind.

11. Mundu ad synd er mannsins verk, En miskun Guds þó stendur sterk, Er þeirra ólík dád, Illgjerd stundlig, En eylíf nád, Og ósegjanligt Drottins rád.

12. Flý eg nú aumur argur þræll Undir nád þína, Gud minn sæll! Syndu því miskun mér, Þig skal lofa og þacka þér Þad á medan eylífdin er, Amen!

## 11. Sálmur.

*Um fridar bót fyrir vorar syndir.*

Lag: Hver sem ad reisir hæga bygd.

Mildi Jesú! eg minnist nú Miskunar bod þitt kæra, Syndugum gjordir siálfur þú Svoddann ordum ad tæra: Allir sem þjáist þýngsla pín, Og þreyttir erud, komid til mín, Ydur skal endurnæra.

2. Þar til gjori eg svo svara þér, Sannleikssins dýrsti munnur! Syndanna þúngi þrengir ad mér, Þér er minn brestur kunnur, Andvarpa eg í eymdum mín, Og vil því gjarnan koma til þín, Lifandi lífsins brunnur.

3. Þúngar eru sem ærid blý Ofmargar mínar syndir, Erfida eg og þjáist því Þessari byrdi undir, Glæpafullann eg aldur el, En vil þó gjarnan deyja vel, Herra mér huggun sendir.

4. Kom þú, minn Jesú! kom til mín, Kom þú med ásján hyrri, Hvíad eins kann eg ad koma til þín, Ad komir þú til mín fyrri, Kom þú og svala

mæddum mér, Margskyns synda eg okið ber, Endurnær mig náð nýrri

5. Hjálpi mér best þín heilög ond, Hjálpi mér best þinn dauði, Og líkami þinn, sem leið hér bönd, Laugaður píslar blóði, Sár þín, undir og árnan trú, Og allt það fyrir mig þoldir þú, Hjálpi mér Herra góði.

6. Dauði þinn fann oss frelsis hlíf, Frið, lífgun og réttlæti, Meir mun þá þitt lifanda líf Léna oss allskyns mæti, Hvar þín minníng í hjarta var, Herbergjar þú og lifir þar, Tign er það svoddan sæti.

7. Gleð þig nú, sál mín! gleð þig nú, Gleð þig í Drottni þínum, Er óbeðinn veitti ást og trú, Svína flocki sínum, Vina grátbeiðni vill hann þá Veita gjarnan og miskun tjá, Hægð er það huga mínum.

8. Þegar þú, hjartans Herra minn! Héðan gjörir mig kalla, Leið þú mig þá til lífsins inn, Á ljómandi dýrðar palla, Svo að mér hlotnist heillir þær, Að heyra þig, sjá og vera hér nær, Og lofa um eylífð alla, Amen!

## 12. Sálmur.

### Um art og eiginnlegleik sannrar trúar,

Lag: O Faðir minn! Eg þrællinn þinn.

Upp, upp, mín sál! Er hér nú mál, Að yfirvega trú þína, Krapt-mikil er, Chrystó því ber, Kærar þakkir að sýna, Edla hlut þann Inngaf þér hann,

Attu því svo að greina, Lof sé Guð þér, Þú léntir mér Lífið og trúna hreina.

2. Af trú það skér, Að verðum vér Vel innplantaðir Christi, Eins og víntré, Víss meistare, Við græðir lausa kvisti, Af Drottni má, Lífs frjófsgun fá, Frægri enn nockra gimsteina, Lof sé Guð þér, Þú léntir mér Lífið og trúna hreina.

3. Olli trú sterk, Abels fórn-verk Allvel þóknaðist Guði, Drottni svo sætt Þykir mjøg mætt Munn-offur þess sem trúði, Er það bæn ein, Oflug og hrein, Orkandi bótum meina, Lof sé Guð þér, Þú léntir mér Lífið og trúna hreina.

4. Enochs trú vann, Að sá Guðs mann Upp var numinn í hæðir, Hún svo girnd manns, Til himna ranns, Heimsins frá glisi leiðir, Eylíst líf því, Og íbúð Christi, Oss gefst hér nú að reyna, Lof sé Guð þér, Þú léntir mér Lífið og trúna hreina.

5. Sonn trú það vann, Sara gat mann Sínum í aldurdómi, Svo gétur Krist Sérhver sál víst, Sem er prýdd skírleiks blómi, En þetta hér; Andliga skér, Oflgann við trúar beina, Lof sé Guð þér, Þú léntir mér Lífið og trúna hreina.

6. Af trú það kom, Að Abraham, Isaach fórna kunni, Sjálfs vilji manns Er sálar hans Son sá hún heitast unni, Andliga í trú Honum offra þú, Elsku sýn þér ei neina, Lof sé Guð þér, Þú léntir mér Lífið og trúna hreina.

7. Olli trú góð, Israels þjóð Yfirgéck hafið rauða, Svo komumst vér, Hættulaust hér, Heims

yfir sjóinn nauða, Rahab frið fann, Frelsast svo mann, Fyrir trúna alleina, Lof sé Guð þér, Þú léntir mér Lífið og trúna hreina.

8. Hrein trú það er, Þá hjartað hér Herrann meðtekið gétur, Með árnan hans, Og er til sanns, Í honum traustið setur, Fullvíss um það, Hún finni náð, Fyrir græðarann meina, Lof sé Guð þér, Þú léntir mér Lífið og trúna hreina.

9. Upprennur sú Hin eflga trú Af andligu Guðs orðs sæði, Eins grær sem tún Andinn og hún, Eitt eru þessi bæði, Orð Guðs er far, Sem andann ferjar Inn í hjartað leið beina, Lof sé Guð þér, Þú léntir mér Lífið og trúna hreina.

10. Opt-nefnd trú hér Andligt ljós er, Uppljómandi manns hjarta, Geisla þá ber, Sem géfa af sér Góðverka skinið bjarta, Hvar það fatast, Hana þar brast, Hendti það bernsku meina, Lof sé Guð þér, Þú léntir mér Lífið og trúna hreina.

11. O, Minn Jesú! Mér inngéf þú Andligt ljós trúarinnar; Lýsi það mér, Svo læri eg gjör Leið sálnhjálpar minnar, Svo eylíft líf, Eptir heims kíf, Eg mætti fá að reyna; Lof sé Guð þér, Þú léntir mér Lífið og trúna hreina, Amen!

## 13. Sálmur.

**Um andligann hjúskap Christí og sálarinnar.**

**Lag:** Eins og sitt barn.

Bú þig, sál mín! Biðlar til þín Blessaður Guð

án efa, Eg vil þig mér, Eg vil þig mér, Jesús svo tér, Jafnann og æ trúlofa.

2. Gleð þig nú því Gudi þeim í, Er gëfur þér brullaups klædi, Og glóandi skart, Glóandi skart, Girniligt margt, Gull-hríng og allskyns gædi.

3. Flýttu þér þá, Fegurd hans sjá, Fagnandi tak vid honum, Brúdgumi þinn, Brúdgumi þinn, Med blómleik sinn, Ber lángt af manna sonum.

4. Hann skýn sem sól, Þá heimsins hjól Heitast uppljóma kunni, Dáfrídur sveinn, Dáfrídur sveinn, Dýrd krýndur einn, Drýpur nád af hans munni.

5. Athuga þú Þinn aumleik nú, Og hans hátignar prýdi, Svo veitstu gjör, Svo veitstu gjör, Hver sæmd þad er, Sér tók hann þig fyrir brúdi.

6. Þú varst nakinn, Því var ei kyn, Þyrdir ei inn ad koma, Í kóngsins sal, Í kóngsins sal, Né koma á tal Vid Christum þinn brúdguma.

7. Synda lörfum, Sídur þörfum, Sjálfur hann þig úr færdi, Silki-fat nýtt, Silki-fat nýtt, Med sóma prýdt, Sídan til eignar tærdi.

8. Gyllini armbond Gaf þér á hönd, Gudvef og brúdkaups klædi, Og eyrna skart, Og eyrna skart, En allt óþarft Af-þvodi sínu blódi.

9. Allt hvad hans er, Otýginn þér, Aum brúdur gëfur hann þetta, Hunáng, vidsmjör, Hunáng, vidsmjör, Þá húngur skër, Hold sitt og blód til rëtta.

10. Ecki neitt slíkt, Eda þvílíkt, Orkar þú hon-

um að veita, Helzt má þó dást, Helzt má þó dást, Að hjartans ást, Sem hefur hann til þín heita.

11. O! hvað sál sú, Síðar og nú, Sæl og blessuð má heita, Svoddan teingd nær, Svoddan teingd nær, Að Son Guðs kær Sér vill til ekta játa.

12. Trúin á hann, Traustast hún kann Teingdir slíkar að festa, Allt hans góts er, Allt hans góts er, Eiginligt þér, Æra og tignin mesta.

13. O þú, sál mín! Unnusta þín Ástúðliga tak móti, Haldtu vel trú, Haldtu vel trú, Hórast ei þú, Hans vingan svo ei þrjóti.

14. Þér, Jesús kær! Það þockum vær, Þú í teingd oss ert kominn, Leið þú oss inn, Leið þú oss inn, Lífgjafari minn! Í lambsins brúðkaup, Amen!

## 14. Sálmur.

**Um Christí dásamliga manndóms tekning.**

**Lag:** Ofan af himnum hér kom eg.

Látum oss nú, mín ljúfust born! Litla stund hepta huga vorn, Pessu stundligu starfi frá, Stunda og þeinkja andligt á.

2. Hjartans augun þá hefjum fyrst, Héðann og uppá Jesúm Krist, Athugandi hver ást hans var, Og leyndardóm hans fæðingar.

3. Hann sté niður í holdið vort, Hann svo oss feingi Guðs born gjort, Heilog fæðing og holdgan hans Hreinsar og bætir saurgun manns.

4. Í tíð friðsama Augustí Oss vildi Jesús fæð-

ast því, Svo ad hann feingi sett til sanns Sátt og frid milli Guds og manns.

5. Hann fæddist því af hreinni mey, Hann syndi þad hann kynni ei Andliga ad fædast utan þar Ósaurgad mannsins hjartad var.

6. Otignir fá þann fognud fyrst, Fæding Christi þeim bodadist, Því honum best þeir þócknast hér, Sem þykjast í hjörtum dálitler.

7. Englar boda fyrst fognud þann Fjárhyrd-urum, því sjálfur hann Sálnanna hyrdir sannur er, Sem beinir veg þeim viltur fer.

8. Med fjárhyrdurum forum af stad, Fæddum Jesú nú leitum ad, Í Bethlehem (þad braud-hús er) Barnid í reifum finnum vér.

9. Í jotu liggur sveinninn sá, Sefnud Guds barna þyda má, Heileg ritníng er rétt til sanns Reifarnir þessa Guds og manns.

10. Mikil og stór er miskun sú, Mér aumum veittir Jesús þú, Þá ecki komst eg upp til þín, Ofan stést þú híngad til mín.

11. Ó! hvad furdanligt er þad rád, Sem uppá fann þín vísdóms nád, Ad miskun er nu á-sátt vid Allra stráugasta réttlætid.

12. Hreinsi nú best mitt hjartans hús Heileg þín fæding, minn Jesús! Gack sídan inn til gistíng-ar, Gud velkominn ad hvílast þar.

13. Allir samsyngi engla hyrd, Í upphædum sé Gudi dyrd, A jordu fridur einninn sé, Og monn-um gódur vilje, Amen!

## 15. Salmur.

### Um ávørt Christí manndóms.

Lag: Til þín, heilagi Herra Gud!

Eg boda ydur, engill tér, ærinn fognud til handa, Sál mín! þú hefur huggun hér, Hrædslu lát þér ei granda, Fagnandi tak vid fæding hans, Sem forbetrad hefur rádid manns, Lífgad og leyst úr vanda.

2. Oss er skrifad ad olíu kvist Í orkina dúfan bæri, Audsýnandi svo fólki fyrst, Flódid nú þurda færi, Eins hefur Jesús fært oss frid, Af Fedursins hendi sátt og grid, En reidi hans runnin væri.

3. Oss hefur Jesús elskad heitt, Ad eylífu samteingjandi, Guddóms og manndóms art í eitt, Oslítanligu bandi, Hverninn mun því hans miskun þá Manninn géta sér slitid frá, Hold sitt og blód hatandi?

4. Þann leyndardóm um holdgan hans, Hver mun útskíra kunna, Loflig hátign vid læging manns Lét sig samteingjast núnna, Hvad er dýrdligra heldur enn hann, Hvad er slæmra enn týndur mann? Þó vill Gud þessum unna.

5. Ogrípanligur Gud var þad, Gjordi mannsképnan reita, Þó bar hún sig í eingvu ad, Eptir sáttum ad leita, Þá klædd st hennar holdi hann, Heiminn sætti vid sig sjálfann, Frid og vægd fús ad veita.

6. O! hvad sú skuld var ofur stór, Attum vér

Gudi ad greida? Jesús blessadur bródir vor J borgun lét sig deyda, Fyrir oss greiddi fulla bót, feigins hendi tók hinn á mót, Greidur til lífs ad leida.

7. Herrann skóp mannsins hold og bein, Held eg þad dásemd sanna, Þó gnæfir þessi gædskan ein, Hann gaf sig til lausnar manna, J Adam er meinleysid misst, Meira géfst nú fyrir Jesúm Krist, Réttlæti og hell himnanna.

8. Sál mín! af alúd þacka þú Þínum Drottni skapara, Lausnara vorum líka nú, Til lífsins vill hann þig spara, Gudi sé lof í allri átt Einum og þrennum súngid hátt. Amen þar eg til svara! Amen!

## 16. Sálmur.

**Um andliga endurnæríng gudhræddra.**

**Lag:** Gæskuríkasti græðari minn!

Eitt géstabod mjög mikid þó Mildur og ríkur Gud til bjó, Húngradir helzt þess neyta, Syndanna ángur sem mann sker, Sálar húngur þad andligt er, Sadníng má hrein trú heita, Manna, Þjód þá, Engla braud, Þad eyddi naud, A eydifjöllum, Sætara býdst nú svöngum öllum.

2. Kræsilig máltíd kallast má, Kriddud fæda er bordi á, Húngrud born heyrid þetta, Ylmandi rétti etid nú, Aflausn synda og nád Guds trú, Svánga má svoddan metta, Jesús, Fridsús, Bót-

in kiss Er braudid lífsins, Best ad neyta, Af drafi fullir ei um það skeyta.

3. Þeir menn sem hofdu fest sér fljód Forsmádu þetta gestabod, Og vildu ecki koma, Skyrlísar meyar þádu þad, Því sig hofdu ei samlagad Satans illum ósóma, Sjá þú, Sál nú, Herra þínum Hlýdni sýn, En hórast eigi, Svo innleidi hann þig og eckta meigi.

4. Jesús Christus andligur er Elíseus, sem vitum vér, Alhægt sé allt ad vinna, Sætleikans vidsmjor himneskt hann Hella í tómu kérin kann, Hvar þau má fá og finna, Eins skér Oss hér, Ast á Krist Þar innhellist Í a'ra sinni, Sem elskan til heimsins býr eingin inni.

5. Syndugir menn í Sódóma Sagda máltíd ei girntust á, En þó Loth opt þeim bydi, Himneskur eldur eptir þad Uppbrendi fólk og dreckti stad, Enginn von var á fridi, Eins má Enn sjá, Drottins reidi Eylíf eydir Allra geingi, Sem brúdkaup hans forsmá, enn bodnir leingi.

6. Ogagn stórmikid er þad þjód, Ef forsmá þetta gestabod, Víst er sá vesæll lýdur, Eylíft húngur og óvild stríd Yfir þá kémur fyrr og síd, Aldrei þeim optar býdur, Mjog blind Mannkind Sú má heita, Sem vill neita Svoddann vistum, Og hyrdir ei þiggja Herrann Christum.

7. Gud hefur máta annann enn, Í sitt heimbod ad kalla menn, Innra þad oss vidvíkur, Hugskots dyrnar þá hann áknýr, Heilogum þánka til vor

snýr, Sæll er þá sá upplýkur, Hér má Hver sjá, Ef hurun góð Í hyggju stóð Með helga parta, Drottinn þá klappar á dyr þess hjarta.

8. Athuga svoddan aumur mann, Upplåttu strax þá kallar hann, Adur enn á burt víkur, Annars situr hann einninn kyrr, Er þú klappar á nádar dyr, Og þeim ecki upplykur, Ef þér Ad ber Gódann vilja, Guds þad skiljir Gædsku-mildi, Og neista hans ástar sem nærast skyldi.

9. Ástar-neistinn er andi hans, Er alast skal svo í brjósti manns, Ad brennandi blossi verdi, Utslocktu madur aldrei haun, Ecki brjót heldur Guds þíns rann, Svo rycki ei reidi-sverdi, Hjartad Er þitt þad Hans musteri, Hvert oss bæri Hreint ad vanda, Og herbergja sídan þann helga anda.

10. Sjá þú til med mér, sanni Gud! Svo eg kunni þitt géstabod Gjarnan med þockum þiggja, Hjarta mitt er nú opid þér, Stíd velkominn sértu mér, Ei vil þig á burt styggja, Sál mín! Sé þín Brúdur trú, Sem búinn ert þú Til brúdkaups kalla, Låt hana sjá þig um eylífd alla! Amen!

## 17. Sálmur.

### Um ávöxt skírnarinnar.

Lag: Jesús Christus á krossi var.

Hygg þú ad, sál mín! hvad þad er, Í heilagri skírn Gud veitir þér, Eru þad andlig gædi, Saurgun sem fyrir fæding ber, Fágar og helgar bædi.

2. Skírnin því öllu orka kann, Aptur að nýu fædist mann Víst fyrir vatn og anda, Óska-barn Drottins er þá hann, Arfi til gótz og landa.

3. Andi Guðs fordum olli því, Að lífs hræríng kom vötnin í, Svo skéður í skírninni, Hann gjörir hún sé hrein og ný, Helgud af náðist sinni.

4. Allir þeir Christó íklædast, Í skírninni sem trú ei brast, Þvegnir í þessu flóði, Hverra skrúði svo hvítfágast Í heilögu lambsins blóði.

5. Á Jerúsalems völlum var Vatns-dýki allskyns lækníngar, Þá engill Guðs það hrærði, Þessa skírn vora það táknar, Því oss synda bót færði.

6. Fórnanna blóð var þveigið þá Í þessu dýki Bethesda, Svo þvæst Christi blóðs kraptur Einninn ofan í vorn vatns-sá, Vel hreinir fæðumst aptur.

7. Heilagur andi ofan fer Í vatns-sáinn, þá skírumst vér, Sjálfur þar saman hrærir Blóðið Christi við vatnið hér, Vorri saurgun fortærir.

8. Pharaó með sinn hrausta her Í hafinu rauða dreckti sér, Í vorri skírn svo skéður, Adam gamli deyr einninn hér, Öllum synda hóp meður.

9. Sú laug er gler-sjór þessi þá, Þann Jóhannes í anda sá, Gégnum skírn skína kunna, Réttlætis geislar Herrans há, Í hjörtun og sálir manna.

10. Ezechiels það vitrun var, Vatn af musteri framflaut þar, Gaf líf og græðíng sanna, Kann svo skírnar flóð kristninnar Kámið hreinsa syndanna.

11. Í skírninni eru allir menn Af andligu

meini græddir senn, Er því vel adgætandi, Ad vær ei syndgum aptur enn, Svo annad verra hendi.

12. Christi réttlæti klædumst vér, Sem kostuligasti skrúdinn er, Því ber oss vel ad vanda, Ad vær hann kvolum ecki hér Med óklárendum synda.

13 Endurfæding vor orka kann, Ad krossfestist sá gamli mann, En nýr upp aptur standi, I meinleysi uppalist hann, Æfinnliga blifandi.

14. Sérhver madur, sem mælt er hér, Musteri Heilags Anda er, Því skyldi hann vel vanda Vegligann sejs í sjálfum sér, Svoddann gésti tilhanda.

15. Vér hofum víst í vatnsins sá Vorum Gudi trúlofast þá, Og svarist allar stundir, Látum oss ecki sídann sjá Satans merkjunum undir.

16. Send þú oss, Drottinn! sanna dád, Svo vér beholdum skírnar nád, En aldrei af oss brjótum, Hér med prísum þitt hjálpar rád, Hvers æfinnliga njótum! Amen.

## 18. Sálmur.

### Um Christí líkama og blóds hjálpsamliga medtekning.

**Lag:** Gædsku Guds vér prísum.

Hver sem ad hold mitt etur, Hver sem dreckur mitt blód, Jesús svoddan frammsetur, Sú lifir ætíd þjód, O, hvad gott géstabod! O, hvad hollt andar fædi! O, hvad lífkreptug gædi! O, hvad sætt engla braud!

2. Nú má neyta og drecka, Náðar brauð géfst oss hér, Svo meigum siá og smacka, Hvað sætur Drottinn er, O, hvað hollt himna brauð! Eylíft líf í sér hefur, Eylíft líf þjóðum géfur, Eylíft líf öllum bauð.

3. Lifanda lífs af brunni Látum oss drecka senn, Guds húss gnægd hún kunni Gjöra vel druckna menn, Komi því þyrstir hér, Kaupið fyrir alls ecki, Eti svángir og drecki, Bjóðast nú bestu kjör.

4. Svo ertu, sál mín! líka Sannliga boðin nú, Fyrir saðníng svo ríka Svöng og þurftug ert þú, Fagnandi flyttu þér, Fyrst þinnar forþénustu Fé og gull eckert veitstu, Géfins þá þigg þú hér.

5. Vor er að vísu eigi Verdskuldan nockru nýt, Spámaður því svo segir: Silfur þeir vega út, Fæst þó ei fyrir það brauð, Erfiði opt sem reyna, Ei vinnur saðníng neina, Samt er þó sálin snauð.

6. Aldrei samvitsku seður Sjálfs forþénan hér, Góðverkum má ei meður Miskun Guds kaupa sér, Sjá þú þá, sála mín! Þeirrar fæðu þú neytir, Pér sem Jesus nú veitir Géfins fyrir gæðsku sín.

7. O! þá dásemd dýrmæta Drottinn Gud verkar hér, Hans sáum hold að eta, Hans blóð nú dreckum vér, Hann einn allt orkað fær, Hans dýrð um heiminn greidist, Hans lof svo vídt útbreidist Eins og eylífðin nær, Amen!

## 19. Sálmur.

**Um dásamliga skickan Drottinnligrar kvøldmáltídar.**

**Lág:** O, Jesú! elsku hreinn.

J Christi kvold=máltíd Kræsíng veitist ofs blíd, Nádar féhyrdslan fríd Fátækum opnast lyd.

2. Himna braud ei þad er, Ad nú medtokum vér, Heldur med sjálfum sér Sedur ofs Drottinn hér.

3. Gud hafdi ei ædra neitt, Ofs svo þad feingi veitt, Heldur enn sitt holdid eitt, Hvers vér nú fáum neytt.

4. Ofs moldar madka hann Med þessu næra vann, Hverninn þá hata kann Hold sitt, þad med ofs fann?

5. Utdrífur andlig mein Oll þessi fædan hrein, Lífkroptug lækníng ein, Linandi daudans grein.

6. Þad braud er best til sanns, Balsam ódaudleikans, Grædt fær og holdid hans Hverskyns stórglæpi manns.

7. Hvar veit nú nockur mann Reinn hlut svo banvænann, Ad géti ei græddann þann Guds daudi sem allt vann?

8. Hvar kanntu, sál mín! sjá Satans skeyti svo hvá, Ad nádar skjold orki á, Ofs sem Jesús nam fá?

9. Hvar helzt á heimsins þjód Hættiligt mein svo stód, Ad Jesú blessad blód Bót sé ei harla gód?

10. Heilagast hold þad er, Hvert nú medtokum vér, Lýtur því himna her, Og hátigna englarnir.

11. Ljómar nú lífs tré mætt, Lauf-blód þess fá allt grædt, Og aflagad endurbætt, Allt rammt gjörandi sætt.

12. Fagni nú allt hvad er, Er skyldt Gud lofum vèr, Vér gjörum þackir þér, Þér sem oss miskun tér! Amen!

## 20. Sálmur.

**Um þad, hverninn madur skal sig tilreida, ádur enn hann gengur til þess háverduga altaris sakramentis.**

Lag: Jesús Christus ad Jórdan kom.

Hver sem ad Herrans hold og blód Hyggur sér ad medtaka, Leyndardóm Guds þad þecki þjód, Því skal sig best ransaka, Svo sem postulinn Páls tér Um prófan Christi sauda, Afelli svo ei eti sér, Edur í lífs stad dauda, Sem aflar sálu nauda.

2. Þessi prófun hún andlig er, Um hana fellur ræda, Mold og aska er madur hver, Madka og orma-fæda, Af jordunni upprennur mann, Af jordunni hér næríst, Ad jordu verdur aptur hann, Í jordunni fortæríst, Ur jordu aptur færist.

3. Hvad er mannskèpna annad enn Andstyggiligt blód-sædi? Til ómaks fædast allir menn, Ódum falla lífs gædi, Hèrvistar stundir hefur fár,

Hérvistar raunir margar, Hervistin þegar hentast stár, Hérvistum daudinn fargar, Hérvistar blóm ei bjargar.

4. Í fædíngu veit enginn hvad Um hans hagi þá skédur, Á dauda stundu eins er þad, Afsin dregst sorgum medur, Öll skepud sképnan eckért er, Er þó madurinn minna Í augliti síns Herra hér, Hér vegna synda sinna, Er þær þó ecki vinna.

5. Kvöldmáltíd Guds nú sjáum senn, Sína med leyndardóma, Sakramentum, þad merki menn, Meddeilíng Krists líkama, Lífsins uppsprettu lind þad er, Líf og nád sem oss gésur, Líkroptug þessi lækníng hér Lífsins grand allt af skéfur, Líf eylíft í sér hefur.

6. Þetta vors Herra hold og blód, Hvert oss til nautnar kjöri, Helgar og gjörir heimsins þjód Heilags Anda musteri, Læknandi andlig lemstrar sár, Læknandi synd banvæna, Lækníng þessi og lífgun klár Læknar Guds born alleina, Rétt-trúadir þad reyna.

7. Fagni nú Christi brúdur blíd, Brúdgumans roddu hlýdi, Í brúdkaup Lambsins bodin fríd, Brúdkaups klædid þad besta hnoss, Brúdgumans er réttlæti, Brúdkaups skrúda þeim bú þú oss, Brúdgumin Jesú sæti! Og leid oss í lífsins mæti, Amen!

## 21. Sálmur.

### Um Christí uppstigníng.

Lag: Öll kristnin géf. ad gaum.

Sjá þig, mín sál! um kríng, Sjá nú Krists uppstigníng, Sjá nú hvert gagn hún géfur, Guds ríki opnad hefur, Drottins lof lýdur magni, Lífsins inngaungu fagni.

2. Lífs voru luktar dyr, Lukt var paradýs fyrr, Enn Christí uppfor kunni Opna þann veg sálunni, Drottins lof lýdur magni, Lífsins inngaungu fagni.

3. Ofan stíe híngad hann, Hér svo réttlætti mann, Eins líka upp nam stíga, Oss ad gjora dýrdliga, Drottins lof lýdur magni, L. i. f.

4. Sem brúdur blíd í lund Brúdgumans girnist fund, Sál mín! lát þig svo lánga Í lambsins brúdkaup inngánga, Drottins lof lýdur magni, L. i. f.

5. Af fjalli Olíveti Uppstíe vor Drottinn því, Frid og sátt framberandi, Fognud samvitskum sendi, Drottins lof lýdur magni, L. i. f.

6. Med honum máttu þá, Mín sál! á fjallid gá, Gódum med girndar hótum Gjor þad, en ecki fótum, Drottins lof lýdur m., L. i. f.

7. Fjall merkir himininn há, Hann skaltu girnast á, Sléttlendid heimsins hrecki, Hverjum þú fylgir ecki, Drottins lof lýdur m., L. i. f.

8. Bethanía eitt er Angistar húsid hér, Ségn=

um það leið þín liggur, Ef líffins til ferdast hyggur, Drottins lof lýdur m., L. i. f.

9. Hver sál sem hyggst ad fá Til himins med Christó ná, Góðverkum gjarnann safni, Guðhrædd, en vondu hafni, Drottins l. l. m. L. i. f.

10. Guðs barna himnesk höll, Heilög og blessuð öll, Saurugt kann sízt ad líða, Synd má þar úti bíða, Drottins lof l. m. L. i. f.

11. Hann sem gott hyggst ad fá, Hann sem Guð gyrnist sjá, Hann skal sér hér fyrst haga Hans í augsýn gudliga, Drottins lof l. m. L. i. f.

12. Drottinn! géf dugnad þú, Drottins boð rækjum nú, Drottins í dýrdarprýði Drottinn oss alla leiði; Drottins lof lýdur magni, Lof Drottins aldrei þagni! Amen!

## 22. Sálmur.

### Um þann Heilaga Anda.

Lag: Nú hefst nóttin og hylur dag.

Þá vor Herra til himna sté, Heilagann Anda ofan sende, Yfir postula allra fyrst, A hvítasunnu í hægum gust.

2. Bæn og eindrægni blifu í, Bænar andinn kom yfir þá því, Samband elskunnar sjálfur hann, Samanbatt trúnni Guð og mann.

3. Í reidi-eldi ofan fór Aður fordum Guð, skapari vor, Í ástar loga andi hans Ofan sté nú til syndugs mans.

4. Svo sem ad Jesús Son Guds var, Sendur heimi til frelsunar, Eins kom Heilagur Andi nú Oss ad helga í réttri trú.

5. Sál verkar lífid líkamans, Limanna afl og hræríng hans, Allt eins Heilagur Andi kann Andliga ad hræra og lífga mann.

6. Salómons hús vid fyrstu fórn Fyllti Guds dýrd í ytstu horn, Vid bænoffur hús hjarta þíns, Heilags Anda dýrd fyllir eins.

7. Sá Helgum Anda yfir býr, Athofn sinni til besta snýr, Ollum vill gjarnann gagnast hann, Guds vors í því sporgaungu-mann.

8. Helgum Anda sé hátt lof téd, Hædstum Fodur og Syni med, Fyrir ástgjafir allar senn, Amen af hjarta syngi menn! Amen!

## 23. Sálmur.

**Um vegsemd heilagrar kristni.**

Lag: A einn gud vil eg trúa.

Geim ad í tæku tómi, Trúud sála! med þackargjerd, Ad Gud þinn fadir frómi Féck þér hæli hjá sinni hjerd, Pad er hans kristnin klára, Christí unnustan trú, Engin áfellis bára Orkar þér dreckja nú, J ork Guds barna ertu Innleidd og geymd í hlé, Unn henni og allteins vertu, Sem andlig þín módir sé.

2. Má hún því heita módir, Mey og trúlofud brúdur ein, Ad andlig born alltíd fædir, Einum

Gudi í trygdum hrein, Holds vild og heimsins hrecki, Og hersiligt (Satan) grey, Þessa vill þýdast ecki, Því er hún skirlíf mey, Svoddan frú sér til handa Son Guds trúlofa vann, Og henni sinn eiginn anda Í egta-pant skeinkti hann.

3. Þad skip má kristni kalla, Sem Kristur sjálfur innanbords er, Trú er styrid, stjórn alla Sterkur og vís tók Gud ad sér, Mastur í skipi midju Merkir Christí kross-tré, Englar hafa þar idju, Óhætt svo bátnum sé, Seglid er ord hans hreina, Andi Guds blæs í þad, Leid kann svo lýdum beina Í lífs hofn og sælu-stad.

4. Kristnin er vín-tréd væna, Og víngardur sá sem frjófgun vann, Blód Jesú gjörir þann grænann, Gud hefur sjálfur plantad hann, Umgyrdtur alla vegu Englanna verndar múr, Hann gróf þar víst vínþrúgu, Var þad hans pína súr, Dýrdarlig Drottins lilja Dávænt bydur hún géd, Vondir þyrnar þó vilja Vara henni upp med.

5. Enn er kristnin sú kvinna, Klædd og umgyrdt var sólunni, Þad skal þá þýding finna, Þetta er Christí réttlæti, Túnglid hún trad med fótum, Tel eg þad heimsins prjál, Satan med svikum ljótum, Sízt vinnur henni tál, Koldeck ytra ásýndum, Innra þó dáfalleg, Þúngliga þreyngist stundum, Þreitandi krossins veg.

6. Er hún víst andlig módir, Undir krossi þó stendur nú, Berandi nógar naudir, Náttúru pálmvids hefur sú; Víntréd þad vex þess betur, Sem verd-

ur því gengið nær, Kristnin eins aukist getur Þá andstreymis þúngann fær, Guðs dóttur heimur hygg- ur Hrak mest og vanþeck gaf, Tára bikar þá þiggur, Þegjandi dreckur af.

7. Svoddan tign, sál mín! sjáðu, Sem krist- nin hefur leint og ljóst, Heimsins hégóma smáðu, Haldt þér við hennar móður brjóst, Þú ert innann skips borða, Utsteyp ei sjálfri þér, Lenda skallt fyrst og skorða, Skérja boðum þig ver, Haga svo hérvist þinni, Að hreinsunar sé þér stund, Og blómliga brúði sinni Brúðguminn hýr í lund.

8. Herra þíns hylli mundu, Hann er vín-tréð enn kvisturinn þú, Gróðursett í hans undu, Avext gódann því færðu nú, Sá oss í samlag kjori Sinnar kristni nú hér, A hæð til himna beri, Sem hrósandi sigri er, Hjálpi oss Helgi Andi Hofn og lendíng að ná A lifandi manna landi, Ljóma Guðs dýrðar sjá, Amen!

## 24. Sálmur.

Um það, hvernin Guð hefur fyrirætlað alla þá trúuðu, til eylífrar sælu.

Lag: Guð þann engil sinn Gabríel.

Ef þú, sál mín! Utvalníng þín Efar í hjarta þínu, Horfðu þá fyrst A Herrann Krist, Hans fæðing líf og pínu, Í honum þú Utvalin nú, Í honum trúuð vertu, Oska-barn Guðs þá ertu, Fyrir utann hann Þarf enginn mann Góðs vænta sér, Guð slík-

um er Einn fortærandi eldur, Utvalinn má Sann-kallast sá, Sér fast vid Drottinn heldur.

2. Því er þad þrent, Sem hér fær kénnt, Þetta enn gjör ad skilja, Guds miskun sú, Þrátt þiggur þú, Þér sýnir fyrst hans vilja, Forþénan Krists Er vottur víss, Vill Gud til lífs þig leida, Lét hann því Son sinn deyda, Andi hans þá Er þridji sá, J ordinu hann Upplýsir mann, Ástverk Drottins svo skilji, Gud sór þann eid, Ad enskis deyd Eda for-dæmíng vilji.

3. Sál mín! þú sjá Þrjá stólpa þá, Þín Ut-valníng á stendur, Gud þig tilbjó Af eingvu þó, Er hér hinn fyrsti kéndur, Sídan þá snaud J synd varst daud, Son hans þig endurleysti, Og fallna á fætur reisti, Þridja stólpann Þína skírn fann, Guds barn í trú Gjorir þig sú, Gaumgæf þú miskun slíka, Af því hún hér Svo undan fer, Eptirfylgir hún líka.

4. Aldrei þú kannt Full-grunda grannt, Gud hvad þér velgjort hefur, Hann lægdi sig, En leysti þig, Líf fyrir hel þér géfur, Hann héldt þér fast, Svo hætt ei dattst, Hann þig vilta vidrétti, J vökvad haglendi setti, Hans höndum í Hvílir þú frí, Hann heill þín er, Hann gaf sig þér, Honum mátt víst behalda, Hann þín geyme, Honum lof sé Hér og um aldir alda! Amen!

## 25. Sálmur.

**Um þad, hversu mikils góds ad bænin fær orkad.**

Lag: Sælir eru þeir allir nú.

O! hvad bæn mannsins eflug er, Sem úthellist á jordu hér, J hædum allt kann verka, Himinsins lykill heitir því, Hún er skjoldur raunum í, Sigrandi Satan sterka, Einn múr-veggur því orka má, Ad óvinir sízt í hellu ná, Eins heptir hún Guds reidi, Hún er vort tilflugt hormum úr, Hún er vor erindsreki trúr, Hún kann til himna leida.

2. Girnist þú komu grædarans, Gudhrædda bæn lát leita hans, Hún mun hann fullskjótt finna, Girnist þú nú í naudsyn hér Nádar dyr Drottins opnist þér, Þad kann hún vel ad vinna, Ef þig þyrstir í eylíft góz, Andlig hella er Jesús oss, Bænar vond hafdu í hendi, Slá þú honum þá hellu á, Herrans nádar-vatn géfst þér þá, Allskonar bøl bætandi.

3. Ef þú villt Gudi offra hér Einu því honum þeckast er, Trúud bæn þín er þetta, Sá gódi ilmur sætleikans, Sem hún færir í augsýn hans, Stillir Guds reidi rétta, Ef med honum villt umgángast, Elskadu þá bænrækni fast, Ef þú villt einninn smacka Hversu sætur ad Herraun sé, J hjartans hús med bæninne Hann skallt innleida og locka.

4. Bænin skal vera stickud rétt, Skynsamliga fyrir Gud frammsett, Trú-gód med lítilæti, Aud-

mjúk, forsjál og alldjarflig, Æru Guds stundi jafnann mjög, Náúngans gagns og gæti, Bænar húsid, sem hjartad er, Fyrir hverskyns óvin læsa ber, En opna einum Gudi, Sá Jesús, sem oss bidja baud, Bænheyri oss í allri naud, Og til lífsins innleidi.

## 26. Sálmur.

### Um verndan heilagra engla.

**Lag: Gjörvoll kristnin skal gledjast nú.**

Sjá hér Guds miskun, sála mín! Hann setur þér engla skara Ad greida þinn veg og gæta þín, Og grandvarliga bevara, Ecki þurfum nú undrast vér, Þó adrar Guds sképnur þéni oss hér, Fyrst englar ei þad spara.

2. Jesús vort hofud andligt er, Engla vernd féck hann ríka, Limir hans erum einnlnn vér, Oss geyma þeir því líka, Á himnum eiga andar þeir Umgángast med oss sídar meir, Því tjá nú þjónkan slíka.

3. Daníel leystu ljónum frá, Loth úr Sódóma eldi, Englar vor þanninn geyma og gá Vid grimmu Satans ofbeldi, Sálirnar flytja sælu í, Sem báru endu Lazarí Drottins í dýrdar veldi.

4. Heilagir eru englarnir, Eins skyldir, sál mín! breyta, Í augsýn þeirra þad eckért gjör, Ósæmiligt má heita, Hreinir þeir flýa synd ef sjá, Svo sem bíflugur reyknum frá, Og dúfur ódaun hata.

5. Gledi-vín eru englum hér Ydrunar tárin manna, Gledjum þá því og gjörum vér Greida ydrun syndanna, Andligir eru andar þeir, Andligt ber oss því stunda meir, Svo fáum fylgd englanna.

6. O, Gud! sem lætur engla her Oss nú á hendum bera, Og lánga reisu leida hér, Lífs um eydimörk þvera, Lát þá sému, þá líf vort dvín, Leida oss inn í dýrd til þín, Unn oss þar ásamt vera! Amen!

## 27. Sálmur.

### Um slægd og umsátur djöfulsins.

Lag: Fadir vor! sem á himnum ert.

Tak þig í vakt þú, veslug sál! Veidarinn Satan býr þér tál, Umsitjandi hvad orka kann, Otal svikrædi bruggar hann, Fellir mann fyrst í syndir sá, Sídann rógber oss Gudi hjá.

2. Syni Guds bjó hann svika mein, Svíkja vildi hans lærisvein, Adam feldum í armód veik, J Christí skóla Júdam sveik, O! hvad hægra þeim óvin er Oss ad tál-draga veika hér.

3. Alla vegu hans umfall rís, Athøfn hverri er snaran vís, Medlætis lyst er metnads kríng, Mótgángi fylgir orvænting, Vid aura safn fær ágirnd fest, Alla gudrækni hindrar mest.

4. Metnad óhófi ínetjar, Embættid sneru letinnar, Yfirbodan fær ágirnd skéd, Umvendun fylgir

reidi med, Umgeingni svarar ofund sízt, Upphefd-inni er drambid víst.

5. Í munninn leggur lýgi hann, Ljóta hurun í hjartans rann, Sérhvern lim manns til syndar dró, Sauruga drauma opt tilbjó, Alla stadi hann óttast þarf, Ofreyttur fremur svika starf.

6. Af því, trúud sál! ad þér gá, Andlig her-vopn þig tak uppá, Sannleiks lindann þér brúka ber, Brynju réttlætis fádu þér, Í Jesú undir innflý þú, Ur þeim bjargskorum ver þig nú.

7. Trúar-skjeldinn þér tak í hand, Til ad út-slöckva Satans grand, Hún fær úr stad svo fjöllin fært, Freistni og efa vel fortært, Hjálprædis set þér hjálm uppá, Heilög von mýkir allskyns þrá.

8. Sverdid andans, sem ord Guds er, Inn-blæstri djöfuls móti ber, Ef þitt sálar skip áföll fær, Allskyns freistínga bylgjan slær, Med hreinni bæn vek Herra þinn, Hún deyfir Satans skeytin stinn.

9. Veitstu best, Drottinn! vanmátt manns, Veitstu best orku freistarans, Vorum herskrúda vill hann ná, Vor merkis-madur sértu þá, Í oss stríd-andi efl vort rád, Í þér svo fáum sigri nád.! Amen!

## 28. Sálmur.

**Nockrar lífs reglur, hverninn menn skuli sér kristiliga haga.**

**Lag:** Hvar mundi vera hjartad mitt?

Lífs reglur hollar heyrid enn, Hugfestid börnin

smá, Dauda, eylífd og dóminn senn, Dagliga þenkid á, Næsta mjøg þetta nálgast menn, Naum er lífs stund og fá, Lagi því hver svo lifnad sinn, Ad lendi hann Gudi hjá.

2. Óvíst et það hvert úngur mann Ellidogunnm nær, Ydrun sendi því undann hann, Adur enn daudinn slær, Márgur hastari helstund fann Heldur enn meintum vær, Nú í dag lík sá kallast kann, Kóngur lifdi í gær.

3. Vogadu ei fyrir vinskap manns, Ad vinna hvad órétt er, Því Guds er eins, en ecki hans, Yfir ad dæma þér, Þeim, hylli Drottins dómarans Dagliga afla sér, Þá reikníng heimtir lyds og lands, Línkind í málum tér.

4. Óttastu Gud og unn sem ber, Annast náúnga þinn, Óvin þolugur illt ei gjør, Øllum vert gódvikinn, Lát alltid nockud ágeingt þér, Ad gá dygda veginn, Drottni lifir þá deya ser, Sá deydir vilja sinn.

5. Umgengni þína og athøfn best Allskonar dygdum pryd, Þolinnmódur þá veitir vest, Vidmóts hegdun sé blíd, Allt það hvern dag þér yfirsést Umbæti kvøld=bæn fríd, En þad þú margt gott ógjørt létst, Ydri þig fyrr og síd.

6. A hædum uppi hluti hjá Hugleida skaltu mest: Auga Guds fyrst sem allt kann sjá, Og eyra sem heyrir best, Samvitsku bók er þridja þá, Þar á allt skrifad sést, Þetta skyldi oss fæla frá, Ad fysast hvad gégnir vest.

7. Umlidnar syndir ángri þig, Akta litt stundligt fé, Sylif gædi sé girnilig, Sék frá þér uggleysi, Vonum fyrr daudinn synir sig, Syndga þér óþeckt sé, Skil þig vid heimsins hreckja stig, Hlýdni lát Gudi í té.

8. Hreinlífi manns er hættast þá, Holds vellysting er mest, Lítilæti þad lóga má, Luckan fær eingvann brest, Réttsýni helzt kann hæpid stá, Hondlun stóra vid fest, Girnst þú ei framar annad á, Enn þócknast Gudi best.

9. Stunda þú svo ad vera víst, Sem villt ad haldinn sért, Annars heims fylgir oss þá sízt, Utann hvad hefdum gjort, Í Herrans augsyn hvern dag fyrst Hér svo vel snidinn vert, Ad óttist ei þó audnadist, Eins dæmist og þá ert.

10. Set þér lífnadar leidrétting, Lífs medann audid er, Sá heims foreckfun helzt er kríng, Hylli Guds aflar sér, Packlætis er þad áminning, Ef þig velgengni skér, En hitt ydrunar uppvakning, Ef þú mótlæti ber.

11. Þitt lífsins takmark láttu því Lausnarann Gud og mann, Stefndu á hann, því nád hans ny Nytsemd alla þér vann, Elskan þig hefji hædir í, Haldt þér svo fast vid hann, Hreint lítilæti hofmódsfrí Honum best þócknast kann.

12. O, Drottinn kær! sem sjálfur sér, Svoddan vér girnumst fá, Vertu oss nær, svo vinnum vér Vilja þíns jafnann gá, Lof þitt og æru eylum hér

En sídar himnum á Sjáum þig vær og syngjum
þér Sanctus og gloria.

## 29. Sálmur.

**Um þad, hverninn vér skulum uggleysinn frá oss hrinda.**

Lag: Einn Herra eg best ætti.

Hver um þad hura vildi, Hvad tregt ad hjálpast er, Aldrei svo ugglaust skyldi Ana framm sem nú skér, J alla stadi ollum Alla tíma er hætt, Englar í himna hollum Hafa því líka mætt.

2. Adam vàr óhætt eigi J sællri Paradís, Svo féll frá sannleiks veigi Salómon harla vís, Davíd sá mæti madur Mannslag og hórdóm vann, Hvergi finnst hér sá stadur, Hættulaus segjast kann.

3. Yfir þér uppi grundir Einn Gud, sem stygdir nú, Helvíti heitt nidri undir, Hvert víst forþéntir þú, Bak til er glæpa geymur, Gégnt augum dómúrinn, A allar hlidar heimur, Hér nú elskugi þinn.

4. Hygdu ad hvadann sértu, Hvar af þín skammast mátt, Athuga eins hvar ertu, Andvarpa sídann þrátt, Grunda hvert leid þín liggur, Lifdu því ugglaus sízt, Frammsýnn til himins hyggur, Hlid mjótt, vandratad víst.

5. Ef ad þú allskyns mæti A himnum girnist fá, J gégnum margt mótlæti Máttu fyrst gánga þá, Kórónu ef kýs ad hljóta, Kallmannliga þá stríd,

Þeim er bein leid til bóta, Sém bugar ei mótgángs hríd.

6. Æfi manns öll má heita Druzta hættu-mest, Þá oss sýnist vel veita, Vor freistar Satan vest, Svo snart sem sofna hyggjum, Svikarinn vaka kann, Vopnin þá vær af leggjum, Vélfullur brynjast hann.

7. Hver kann hér fastann finna Fögnud jardríki á? Allt þad vill ódum linna, Oss sem nu gledja má; En hvad oss ángra kunni Aldrei til þurfda fer, Uggleysi enginn unni, Ádur strídsloks-in sér.

8. Dómarinn Kristur kæri Kémur þá vonum ei, Vel þér því vaka bæri, Vertu sem forsjál mey, Lát þig ei veröld villa, Varfærliga framm gá, Uppspretta alls hins ílla Uggleysíd heita má.

9. O, Gud! sem gafst oss anda, Gott ad uppbyrja nú, Lát oss stöduga standa, Ad stunda hvad girnist þú, Frá íllu oss bevara, En þá hérvistin dvín, Unn oss med fridi fara Í födur-land heim til þín!

## 30. Sálmur.

**Um þad, hverninn madur skal bera sig ad breyta eptir hegdan Christi.**

Med sama lag.

Frelsarans er frammferdi Fegursti speigill vor, Uppfrædíng oss þad gjerdi, Orkum hans dygda

spor, Öll vor heill er Krists pína, En hans lífserni hér Heilaga hegdun sína Hverskyns kénnandi er.

2. Sá sem vill sídar ríkja Í sælu Drottni med, Hann skal frá vondu víkja, Vild hans stunda og géd, Lífs reglum sem oss setti, Sinni med hegdan hér, Allir síg eptir rétti, Elski hann hreint sem ber.

3. Hver sem vill (vor Gud sagdi) Vel eptirfylgja mér, Sinn kross skal sá ad bragdi Sjálfur fyrst bera hér, Sá sem kann sér afneita, Sína um lífsins tíd, Ást Guds og elsku heita Óvinnur fyrr og síd.

4. Gjör þú oss, Þýdi Herra! Pína sporgaungu menn, Fyrirgéf vort hid verra, Vegliguſt einíng þrenn! Veit þú ad vort frammferdi Vènjist líkt þínu hér, Svo ad oss eylíf verdi Ununar vist hjá þér! Amen!

## 31. Sálmur.

**Um þad, hvad þad sé, ad afneita sjálfum sér.**

Lag: Allt mitt ráð til Guds eg set.

Heyr, min sál! hvad þinn Herra tér, Hver sem vill eptirfylgja mér, Sér skal sjálfum afneita, Elski nockur sig sjálfann mest, Sonn ást til Guds þar útrímist, Svo mátt ei, sál min! breyta.

2. Sá eiginn vilja mælir mót, Med því deydir sjálfs elsku rót, Krists lærisveinn kann heita, Ást til Guds er ei alvarlig, Utan mann hati sjálfann síg, Svo skaltu, sál mín! breyta.

3. Hvad sem einn elskar umframm allt, Er þad hans Gud, sem meina skalt Helzt muni vegsemd veita, Hver sem mest elskar sig sjálfann, Sig gjörir víst ad Gudi hann, Svo máttu ei, sál mín! breyta.

4. Abraham stórar frægdir feck, Fødur-landi þá út af geck Fús til framandi sveita, Andligur Guds man ertu þá, Elsku sjálfs þíns ef gengur frá, Svo skaltu, sál mín! breyta.

5. Med sama auga enginn kann Upp og nidur ad líta senn, Eins vill þad ersidt veita, Ad unna sér af alúd skást, Og elska Gud med sømu ást, Svo mátt ei, sál mín! breyta.

6. Um blómstur nockur ort þad er, Eptir sólu þau snúi sér, Sem Sólseqvía heita, Afbragds kostum og heidri hér Hníga svo eins ad Gudi ber, Svo skaltu, sál mín! breyta.

7. Øll verk sem koma af ást og trú, J augsýn Drottins vel skarta nú, Þó oss sýnist aum heita, En af sjálfselsku ef framm gá, Ecki þócknast þau Gudi þá, Svo máttu ei, sál mín! breyta.

8. Sá afneita sér sjálfum kann, Sína vegsemd ei girnist hann, Guds æru gjarn ad leita, Allt gott þiggjum af hendi hans, Honum skal géfast dýrd til sanns, Svo skaltu, sál mín! breyta.

9. Hver eiginn vilja á hlýdist, Adams dæmi sá skodi best, Guds vild ei gjordi skeyta, Ast hans og farsæld af sér braut, Olli tjónun og mannsins þraut, Svo máttu ei, sál mín! breyta.

10. O, madur! Gudi offra þú Eiginn vilja, svo kanntu nú Sjálfum þér senn afneita, Drottins vild skaltu meta mest, Mundu hans æra eflist best, Svo skaltu, sál mín! breyta, Amen!

## 32. Sálmur.

Um þá réttu hvíld og rósemd sálarinnar.

Lag: Má eg ólucku ei móti stá.

Hvar viltu, sál mín! huggun fá? Hvert sképnum hjá Hyggur þér hælis leita? Oh! nei, þeim öllum ædri ert, Ei fá þér gjørt Rétta hægd rólegheita, Jesús einn er Allt þarfligt þér, Hans undum i Unir þú frí, Girnd þína vill han veita.

2. Brúdur hans ert, Því áttu fast Hann adhyllast, Og unna allra fyrstum, Haldtu þig líka hans bústad, Hættu ei þad, Adra annast ad vistum, J ayra nægd Er ei hughægd, Hvergi hér má Hvíld né ró fá, Fyrir utan kónginn Christum.

3. Metord og vellyst margur mann Meina hvíld kann, Og hugbót sálu finni, Ogunst manna ef ad gustar, Eins stødug var, Sem strá storm standast kynni, Manna lofstýr, Mjøg er oss rír, Utvaldra prís, Annars heims vís, Hans trúi eg lof ei lini.

4. Ond vor er lífid Líkamans, Líf sálar manns Er Drottinn einninn líka, Réttu lífi hún lifir þá, Laus slísum frá, Jbúd hans hefur ríka, Annars er

daud, Ills rík, Góds snaud, Hvíld hvergi fann, Hittir því bann, Lætur sér fjandmenn slíka.

5. Hver sem vid Gud sér halda kann, Hvíld sálar fann, Druggur heims um haudur, Gladur er víst í sorgum sá, Sigrandi þrá, Lifir þó lítist daudur, Ástgjof Andans Er unun hans, Hatandi heim, Sinnir lítt seim, Drottins nád er hans audur.

6. Hreinsa þú, Herra! hjartad mitt, Herbergid þitt, Unnustinn andar minnar, Gud! velkominn til gistingar, Gack þú inn þar, Unn mér íbúdar þinnar, Og þá hug-hægd, Hvíld nád og frægd, Losa þú mér Ad þacka þér, Um ár eylífdarinnar, Amen!

## 33. Sálmur.

### Um góda og hreina samvitsku.

Lag: Med sama lag.

Hvad sem þú mann villt hafást ad, Huxadu um þad, Samvitskan saurgist eigi, J návist hennar varna vid, Syndanna sid, Sanndæm er þó hun þeigi, Hún er sú bók, Til minnis tók Allt þad þú hér Orétt gjorer, Og lýsir því á dóms degi.

2. Med sannleiks stýl sú skrifud skrá, Skýrir grannt frá Allskyns illu athæfi, Því kanntu madur finja síst, Samvitskan nýst Vaknar víst vært þó svæfi, Fúl, fúin er, Færir því þér Ill-orma þá, Ei deya fá, Nagandi alla æfi.

3. Legg þú því alla alúd á Ad deyda þá, Fyrit ydrun hughreina, A uggleysi nú ecki mátt Ala

þá dátt, Um alla æfi þína, Lífs-bók þæg þér Þinn Jesús er, Líf, lærdóm, trú, Laga skallt þú, Eptir honum alleina.

4. Hvar sem þú ert, og hvert þú fer, Hvern tíd er þér Samvitskan fast fylgjandi, Allt hvad í hana innlagder, Eptir þér ber, Illt og gott uppreiknandi, Geymslu-féd frú Forvarar nú, Skilar því þá Þig dæma á, Vill þér svo verda ad grandi.

5. Samvitsku dóm frekt forda þér, Fyrst sami er Sekur sakaráberi, Vottur, dyblissa, dómarinn, Hrís, hegníng stinn, Sérhver því varsær veri, Þá sjálf fús sá, Mál dæma má, Sem vitnid var, Viti sakar, Hvar er þá undansæri?

6. Svo sem þú leggur allt kapp á Eylíft líf fá, Samvitsku haf svo hreina, Svo snart sem manni missist sú, Missist þeim trú, Missist og Guds nád eina, Syndanna síd Varna því vid, Samvitsku kvel, Kvelling og bel, Þarftu síst þá ad reyna.

7. Ur bók samvitsku illgjord svo Med ydrun þvo, Ad lesist ei á dóms degi, Sannrar gudrækni set þér form, Samvitsku orm Sigrandi, svo hann deyji, Innvortis eld Augna-tár feld Slockur hratt hér, Huggun svo þér Annars heims endast meigi.

8. Géf þú oss, Herra! heims um hríd Heyja gott stríd, Og trú heilagri halda, Samvitskan hrein þar sé vid fest, Sem kunni best Sigursæld vorri valdi, Svo bern þín ein, Hér hjarta hrein, Megi þig fá Í sælu sjá, Og lofa um aldir alda.

## 34. Sálmur.

Um það, að stunda uppá sannarligt lítilæti.
Lag: Jesú Christe! þig kalla eg á.

Vird þú fyrir þér, ond mín aum! Eymdar hag mannskepnunnar, Lítilætis svo gef þú gaum, Gjør ei synd drambseminnar, Fæðíng, hérvist og utfør er Allskonar sorgum vafin, Og kvelling kafin, Umferdar reisu hefur hér Hæpið þó nætur tafin.

2. Illa fer þér að upphrokast, Aska og moldar þreckur, Andstygdar sæði ádur varst, En nú saurenda seckur, Orma fæða snart ordinn ert, Eiginnligt neitt ei hefur, Þá tíd hér tefur, Utan hvað hafðir illa gjort, Er þér þó hefnda krefur.

3. Lilju þá Drottinn segir sig, Sem vex í dalverpunum, Eru það hjørtun audmjúklig, Ibúdar kyrkja honum, Það blóm má sízt á fjøllum fá, Fyrrist Herrann drambláta, Sem stórum státa, Hefur þeim næsta ógéð á, Elskar best lítiláta.

4. Svo sem vatnið ei vinna kann Veg forbrecktann upprenna, Allt eins Guds miskun eckí rann Upp til drambsamra manna, Lítilát sál er seßinn sá, Sér fann Drottinn hægastann, Og bústad bestann, Í augsýn hans sá mikið má, Misþocka vann sér stærstann.

5. Lít þú, sál mín! þinn Lausnarann, Lét hann sig stórum pína, Með Lítilæti ljúfur vann Lækna drambsemi þína, Um veg hógværdar hefur hér Í himna dýrd inngengið, Og frid oß feingið, Hofmóðs gotu því hugsi sér Himins tilkomast einginn

6. Vegur dramblætis Adam er, Uthýsing Paradísar; Hverninn má hann því þángað þér, Þú hofmóðugi! vísa? Athuga meir hvað ógjört léttst, Af því sem skyldan krefur, Enn hitt sem hefur, Mannkosta þogn er ollum best, Eigin hrósan hún kéfur.

7. Dygða féssjóð ei máttu mann Með hrósun opinbera, Annars djöfull við drambið kann Dýrgrip þeim ræntann géra, Lát þig ei hofmóð hefja hátt, Hvaðann í afgrunn lasta Þér kann að kasta, Drambsemi ecki elska átt, Þá andskotans sæng hægasta.

8. Allra lasta er sæði sú, Og svoddann þerrivindur, Sem þurkar brunn Guðs náðar nú, Nærandi mannakindur, Varist því hættann hroka-vind, Hver sem vill miskun hljóta Og náðar njóta, Guð géfi ollum svoddan synd Sannri með auðmykt hata!

9. Dramblætis-þrota vondann vorn Virðstu, Jesús! að græða, Lítilæti þín blessuð born Bið eg þú vildir gæða, Kénn oss að feta feril þinn, Framferði rétt að haga, Og lifnað laga, Síðann leiddir til lífsins inn Lofa þig alla daga, Amen!

## 35. Sálmur.

Um það, hverninn mann skal forðast ágirndina.

Lag: Náttúran oll og eðli manns.

Sáluhjálp manns, sem augljóst er, Elsku mestrar

útkrefur, Ágirnd svo hata ollum ber, Árgur er sá hana hefur, Hann vantar mest, Hvad hefur flest, Hinu likt sem hann brestur, Svæginn senn Vid alla menn, En sér þó sjálfum vestur.

2. Drambsemi alls ills er upphaf, Ágirnd svo rótin lasta, Grundadu mann hvert gagn þad gaf, Sem gjorir hún eptir brasta, Opt ecki þar Þér afrekar, Enn stundum fallvollt gædi, Vanblessan stér, Illt audsafn hér, Ohöcknun Drottins bædi.

3. Auds med ónædi aflar mann, En forvarar med kvída, Sídann missist med sorgum hann, Svo vill æfin útlída, Annad hvert oss Þad aura hnoss Yfirgéfur til líka, Eda vær þad, Í annann stad, Imsir þá gótzi slíka.

4. Ágirndar synd er orgust því, Afgudadýrkun vesta, Ad sképnu sjálfa setur í Sæti skaparans besta, Auds þyrna þá Ei elska má, Ofmarga sál þeir meida, Áhyggju med Sárt særa géd, Suma í glotun leida.

5. Auds gnótt né orbyrgd ecki kann Utslockva þorstann aura, Þess geysiligar blossinn brann, Sem borid var á hann meira, Traudt takmark því, Auds ágirnd í, Af þér skyldan útkrefur, Svo ei kastist, Í afgrunn yzt, Eingin takmork sem hefur.

6. Sál mín! ad slíku géf þú gaum, Gjor ágirnd frá þér ræka, Fé ber þú annad ei fyrir dóm, Enn hvad gladdir fátæka, Þeirra hend þér Holl hyrdsla er, Himnesk en fallvollt eigi, Í hana nú Hvad innlétst þú, Er þér víst á dóms deigi.

7. Hverjum ei nægist Herrann Gud, Hendir þann ágirnd vesta, Annaðu madur aumann lýd, Ecki mun þig þá bresta, O Christe kær! Kristni svo hræ, Kærleikans verk sé framin, Agirnd vel ver, Veit oss hjá þér Vist og góð eylíft, Amen!

## 36. Sálmur.

**Um það, hverninn háttad sé sönnum kærleika.**

Lag: Fadr vor! sem á himnum ert.

Osaurgud elska ecki má, Utan Guds bornum finnast hjá, Trúar ljós kann ei kvikna þar, Kærleiks eldur sem enginn var, Sól og byrti skilst aldrei ad, Elska og trúin, sama er það.

2. Daudur er sá ei anda kann, Eins trú ef brestur kærleikann, Avextur andans elskan er, Avextur trénn vitni ber, Sann-kristinn má ei segjast sá, Sem kærleikur finnst ecki hjá.

3. Salómons kyrkja blómann bar; Besta gulli ell forgyllt var, Andligt hús Drottins er þá skyldt, Af kærleika sé vel forgyllt, Og í hjarta sé elskan fyrst, Ytri verkum það bevísist.

4. Kærleikur umber annars brest, Er hann mannkosta sædid best, Oll verk þau virdast ill og ljót, Sem ecki spretta af kærleiks rót, Kristnina alltíd eftir sá, Ædri enn trúin heita má.

5. Ofundsjúkur hann ecki er, Illmannliga ei hagar sér, Gódgjarn, hógvær, sér hrokar sízt, Hyr í

vidmóti, fridgjarn víst, Ránglæti gledst hann aldrei af, Eckert rúm vondri hurun gaf.

6. Ollu trúir og allt umber, Ecki leitar; þess hvad hans er, Þó túngumálum linni ljóst, Lika spádómum tæmist brjóst, Kærleikur aldrei afmáist, Eykst hann, þó meir í himna víst.

7. Kærleiks-verk, sál mín! keppstu vid, Kristnum hlýdir best samlyndid, Sem sídar eigum born Guds blíd Búa samann um alla tíd, Einn líkami sem erum hér, Ein andlig sál oss stjórna ber.

8. Eins Herra þjónar erum vær, Eindrægni stundum born mín kær, Samhuga oll í ást og trú Innbyrdis skyldum lifa nú, O, Gud! tendra vorn elsku eld J Anda Helgum fyrir Christi skuld, Amen!

## 37. Sálmur.

### Hverninn menn skuli ástunda tucktugt liferni, án lostasemi.

**Lag:** A einn Gud vil eg trúa.

Hreinlífi hann skal stunda, Sem heita vill Christi lærisveinn, Sneru saurlífis synda Satan snetjar margann einn, Vér hofum. Herrans blódi Hreinsast í skírnar sá, Lostans lifnadar vodi Leysist oss ecki þá, J selum og fiærvist manna Fólk drýgir svoddann brest, Augsýn Guds og englanna Ættum þá fordast mest.

2. Afvik þád enginn leika, Augum Guds fela gjerdir manns, Né englana útiloka, Eda og sjálfs

samvitsku hans, Verkanna vitnin þessi, Varfærni gledja átt, Lostans ofbrádur blossi Bálast í himininn hátt, Enn sá ódaun hann orkar, Allt nær til vítis frekt, Skammvinn sú vellyst verkar Volædi æfinnligt.

3. Minníng Christí krossfesta Krossfesti þína holdsins vild, Umþenkíng eylífs neista Í þér slöckvi saurlífis eld, Of-hita holdsins breka Hepti ydrunar tár, Elsku þess ætíd freka, Otti Guds deysi klár, Sparsemi sá sér setur Sífeldt í dryck og mat, Lastvar svo lángtum betur Losta-girnd fordast gat.

4. Allt jafnt skallt einhver vinna Annríkis störf þó naudsýnlig, Sídur kann færi finna Freistarinn þá ad svíkja þig, Davíds illgjordum olli, Ad ydjulaus framgéck hann, Jóseph frelsti þad falli, Fríliga þjóna vann, Brosandi bragda refur Brugg-ar þér svikin ill, Banvænann hala hefur, Honum þig stínga vill.

5. Hætt er hreinlífis blómi, Hvar sem sælgæti gnæfir frekt, Gættu ad Drottins dómi, Drýgdu því eckért svívirdiligt, Í hófi skallt holdid ala, Haga gudliga þér, Heilagt huxa og tala, Heyrir Gud allt og sér, Kærleiksíns rjódust rósa Rétt kollud sál mín sért, Skírlífis liljan ljósa Líka einninn þú vert.

6. Ad sigrast af sjálfs síns holdi, Svívirdilig mínkun víst er þad, En þad vinna med valdi, Vegligt þykir í allann stad, Lastanna táldrægt tundur Torveldt ad slöckva er, Vid únga sig oftast

bindur, Frá oldrudum naudugt fer, Hjá fátækum fýsist lenda, Fælist ei hreisi smá, Skammast sín vart hin vonda Voldugum gista hjá.

8. Ill girnd eins atferd hefur, Sem aumkunarligur ferda-mann, Hógvær fyrst húsa krefur, Hrokar sér strax þá kémur í rann, Í húsbóndans sess sig setur, Sinn þræl gjerandi hann; Sál mín! þig sjá um betur, Sízt hýsir óvin þann, Bruna saurlífis synda Sviptu, Drottinn! oss frá, Lát oss hreinlífi henda Og himneskum arfi ná, Amen!

## 38. Sálmur.

**Um þad, hversu fallvallt ad þetta vort líf sé.**

**Lag:** Um daudann gefdu Drottinn mér.

Settu, mín sál! í þánka þér Þessa lífs aumt volædi, Æsi, heilsa, lán, lucka, sjer Leikur á gronnum þrædi, Hjartad upphef til Herrans þá, Hégóma heims í burtu frá, Og girnstu eylíf gædi.

2. O, hvad skamvinn manns æfin er! Einni stund fyrri lídur, Sem hardur straumur hastar sér, Hvatskeytliga framm skrídur, Þess meir styttist sem leingist líf, Lifandi Drottinn sé vor hlíf, Og latshvarf á allar sídur.

3. Lífid til daudans upphaf er, Allskyns mótlæti vafid, Dagliga burtu deyum vér, Daudligt er manns upphafid, Mid-tíminn þjáist sorg og sút, Sídasta skeidid kídur út, Otta og angri kafid.

4. Midt í saurnum fyrst myndast mann, Í myrkri tekur sitt fódur, Leidist svo út med ángri hann Af lísi sinnar módur, Rotid sædi er efnid hans, En bóla vatns hérvistin manns, Endalykt orma sjódur.

5. Jord berum vær í holdi hér, Hold vort verdur ad jordu, Jordina trodum jafnann vér, Jardhús líkamir urdu, Þeir sem þar drottna djarfir tveir (Daudi og synd) þad brjóta þeir, Og nída, svo nemur furdu.

6. Hvad er þad reikna manninn má? Má hann þræl daudans kalla, Brothættast gler og blødru smá, Blæktandi sisíd valla, Volundar hús hans æfin er, Eymdanna haf, og styrjold hver, Hljómur, hvellandi bjalla.

7. Vegligri nyt er lífid líkt, Ef lúka villtu upp henni Med sannleiks kníf, þar finnur frekt Fúa og madka inni, Og sem epli fríd ásýndar, En hjadna strax og verda ei par, Ef hampar þeim hendi þinni.

8. Heims audur, skraut og hefdar par Hellst er þeim eplum líkur, Ytra dáfegur ásýndar, En í raun dupt og reykur, Sál mín! hafdu svo heiminn þá, Ad hjartad festir þar ecki á, Hans blóm í visnan víkur.

9. Einn Gud skickadi orminn þann, Er lundinn stínga gjordi, Yfir Jóns spámanns hofdi hann, Hratt svo uppvisna yrdi, Eins svo foreydslu orma hérÍ allt þad setti, sem stundligt er, Svo eydist ad eingvu verdi.

10. Med blómligum heimi ad blómgast hér, Best þykir þeim því nædi, Med topudum honum ad tapa sér, Tel eg þad vest skadrædi. Stýr vorum hjörtum, Herra kær! Svo hverju framar þig elskum vær, Og erfum eylíf gædi, Amen!

## 39. Sálmur.

**Um þad, hvad hégómligur hlutur ad veröldin sé.**

Lag: Einn tíma var sá audugur mann.

Sál mín! elskadu ecki heitt Aumann heim né þad hans er neitt, Elds-matur allt er þetta, Eylífum gædum unn þú best, Eylíf velferd er þar vid fest, Og eylífs lífs unan rétta, Girnist ei manna metord hér, Minnst dádst ad því sem fallvallt er, Ad þóknast Gudi sé þeckast þér.

2. Lat þér nægja þinn Lausnarann, Lærdu ad þeckja þig og hann, Mammon skallt midur stunda, Erfid reisa þín æfi er, Er hann þá farartálmi þér, Þér ber þad þrátt ad grunda, Fátæk komstu í heiminn hér, Hédann eins líka aptur fer, Mid-tíma sómir sama þér.

3. Of-hladid skip mun sockva senn, Svo kéfur audur marga menn, Lát þér því lítid nægja, Fésjódur þinn er Drottinn dýr, Í dauda sem ecki frá þér flýr, Mun þad mest meinum hægja, Tapast allt annad audsafn hér, Allra helzt sá því safnar sér, Í Gudi ríkur ef ecki er.

4. Audur med ónád aflæst kann, Ahyggjulaust ei brúkast hann, Missist med sút og sorgum, Fuglalíms hefur ást hans art, Andligt fidur ef þennann snart, Festist þad manni morgum, Agjarna mannsins ómak þeckt, Eiginn Herra er næsta frekt, Bædi fallvallt og banvænligt.

5. Minníng Christi, sem krossfestist, Krossfesti þína holdsins lyst, Sætleik andans svo smackir, Minníng eylífs bruna og báls Bálid slockur þíns losta táls, Krossinn þiggjandi þackir, I andliga fórn þú offrá þann Einka son þér hjartkærastann, Girnd þín, sál mín! svo heitir hann.

6. Mjó liggur leid í himna höll, Hrufótt og þyrnum hladiu oll, Rósum varin er eigi, Af vellyst þroskast ytri mann, Innri nærist vid kostinn þann, Ad sorgum mettast meigi, Ottinn Drottins skal deyda því Daudligt hold þitt hér heimi í, Frá þess klækjum svo komist frí.

7. Um Guds réttlæti þeinktu þrátt, Þinn girudardóm svo hata átt, Og veiginn vellystínga, Höggorms sladrandi hausinn er, I hala banvænum eitur ber, Honum vill hann þig stínga, Sjá til þú kunnir sigri ad ná, Svo lífs kórónu mættir fá, Jesús géfi þér gæfu þá! Amen.

## 40. Sálmur.

**Um þad hvert gagn ad freistíngarnar gjöri manni.**

Lag: Gæskuríkasti grædari minn.

Sannkristinn sál þad sómir þér, Sumtídis reyna

freistíng hér, Stöðug í stríði ollu, Mótgángsbylgjur þá bíður þú, Betur festir sinn fót þín trú A Christó hjálpar hellu, Vols stríð, Hreggs hríð, Að þá snærir, Enn meir færir Avöxt trúin, Sem al-laufgud eik, græn ecki fúin.

2. Afl manns í stríði marka má, Megnið trúar svo prófast þá Freistíngar fær að reyna, Í Péturs bát þá Son Guðs svaf, Sjórinn æstist svo á þá gaf, Urdu skip-menn vonvana, Mótkast, Heims hast, Manni er þetta Reynsla rétt, Sem ritníng kéndi, Reidi teikn ecki af Herrans hendi.

3. Meir er oss hætt í medlæti Við margskyns synd, Enn andstreymi, Holdsins vild krossinn kéfur, O hvad morg beisk Aloes korn, Utrímandi sjálfs þocka vorn, Drottinn oss opt inn géfur, Heims akt, Fjár frakt, Pyrna þeska, Hætta, hvaßa, Hann burtsnídur, Svo hveiti góðs áforms hindrist síður.

4. Það sem menn dæma daudans bann, Drottinn með sama lífga kann, Af orbyrgð gnægtir géfur, Hvad hrygd og ángur holdum vér, Huggun og gledi opt það er, Sótt til smyrsla hann hefur, Kross á Oss þá Kærkominn, Í sérhvert sinn, Að sonnu vera, Polgódir skyldum þjáníng bera.

5. Trúfasti Drottinn typta nú Tímannliga, enn síðar þú Virdstu mér vægð að sýna, Lát hrísi fylgja mýskun með, Mér aumum syndu foðurs géð, Og næma nákvæmd þína, Gud minn! Præl þinn, Heimur hatar, Raunir ratar, Rénar kæti, Leið mig í eylíft eptirlæti.

6. Samaritane Christe kær! Kom mér hálfdaudum þræli nær, A þinni leid liggjandi, Lát beiska vín í synda sár, Sídann huggunar vidsmjør klár, Mein og verki mýkjandi, Jesús! Jesús! Þjádu nú, En þol og trú Lát þverra eigi, Eylífann sigur svo ødlast meigi, Amen!

## 41. Sálmur.

**Grundvøllur kristiligrar þolinmædi.**

Lag: O, Jesú! ønd mín leitar.

Mín sál! med þøckum þigdu Pann kross þig henda kann, Ad Drottins dæmi hygdu, Til dauds var píndur hann, Aldrei kann oss tilfalla Annad slíkt sem hann bar, Af øllum, fyrir alla, A øllu píndur var.

2. Kulda, benjar, klædleysi, Kvøl, hád, ørbyrgd og smán, Húngur, þorsta, heipt, geysi, Hegg, bríxl, lygi og rán, Hann vard því hátt ad kalla, Hardri í daudans neyd, Af øllum, fyrir alla, A øllu svoddann leid.

3. Aumt er því á ad heyra, Offátur þrællinn er, En Herrann hlýtur bera Hrelling og neyd á sér, Limir láta glaum gjalla, Grætur høfudid þó, Af øllum, fyrir alla, A øllu þvíngadur dó.

4. Guds bern kénndu kjør þessi: Kvelling sára Jób bar, Pétur héck hátt á krossi, Halshøggvinn Jacob var, María sorgir svella, Sonar vid krossinn þá, Af øllum, fyrir alla, A øllu píndann sá.

5. Með krossfestum kristnir ættu Krossfesta hold og géð, Í tign svo tignast mættu, Tignuðum öllum með, Og dýrdligir á dýrðar palla, Með dýrðligum leiðast þeim, Af öllum, fyrir alla, A öllu leið fyrir heim.

6. Þá Kristur með krossins hamri Klappar hjartans dyr á, Strax á stundu samri Stilltur uppljúktu þá, Heyrðu hvað hann kann spjalla, Sem hefur þú þá fyrir gést, Af öllum, fyrir alla, A öllu þjáður mest.

7. Gullig krossburðar kédja Kann best að skarta þá, Sína vill Son Guðs gledja Síðasta deigi á, Systkinum sorgar galla Sjálfur afþurkar hann, Af öllum, fyrir alla, A öllu kvalníng fann.

8. Sjá þinn brúðgumann blíða Blessaðann, sála mín! Ramma hlaut raun að líða, Rjóður af ofur pín, Hann bar og hvítann mjalla, Því hrakníng sára og deyð Af öllum, fyrir alla, A öllu saklaus leið.

9. Þú hlýtur hrelling hafa, Er Herra þíns girnist kjör, Hann kann hunáng að géfa Af hellu mótlætis þér, Ver því blessunar falla Sú beiska krossins rót, Af öllum, fyrir alla, A öllu blés Drottni mót.

10. O, hvað beisk mótgángs myrra, Margan gétur vankjætt, Géf oss gleði-vín, Herra! Gjör vort hið ramma sætt, Og leið til himna halla, Hans fyrir blóð og deyð, Af öllum, fyrir alla, A öllu píslir leið, Amen!

## 42. Sálmur.

**Huggun sú ad madur kunni fyrir gudliga hjálp stödugur standa allt til æfiloka.**

Lag: Gæskuríkasti grædari minn.

Nær mun koma sú nádarstund? Nær mun eg sjá og fá þinn fund, Jesu brúdguminn blídi? Nær mun mér unnt, elskugi minn! J ockar brúdkaup leidast inn, Heims úr útlegd og strídi? Gud minn! Gud minn! Þú mig leys Ur holdsins hreysi, Og heimsins voda, Leyf mér þitt auglit um eylífd skoda.

2. O! hvad hræddur eg aumur er, J leirkérum því breiskum ber Minn trúar féssjód frída, Sál og líkama synda hætt Segi eg þau kér sem hef nú rædt, Sitt vill þar odru strída, Gud minn! Gud minn! Satan refur Grid ei géfur, Grimmur slægur, Ast-vinum þínum er óf-ovægur.

3. Eg hrædist líka heims ókjor, Hreckvís og óheil veroldin er, Hver kann hér rond vid reisa? Hvert sem mér geingur med eda mót, Mínum stofnar þad hrosuln fót, Súrt hata, sætt vil kjósa, Gud minn! Gud minn! Hver vill nunna Klakklaust kunna Komást hédann, Ohættann veg fæ eg ecki sédann.

4. Verdleik mínum eg vísa frá, Verdleik Drottins eg treysti á, Víst mun hann veg minn beina, Hans nád stadfost og eylíf er, Aldrei kann hún því bregdast mér, Eg fæ þad alltjafnt reyna, Gud minn!

Guð minn! Hondin þín, Þú heillin mín! Ur hættu leiði, Dvina umfall svo aldrei meiði.

5. Sáluhjálp þá, sem Guð gaf mér, Grundvallað hefur í hjarta sér, Af því kann aldrei skeika, Uthellt blóð Jesú ásamt mun Og sakramenta innsiglun Aðstyðja einninn líka, Guð minn! Guð minn! Von mín er Nú oll í þér, Eg eingvu kvíði, Harmkvæli nockur þó holdið líði.

6. Frelsarinn hefur þú fundið mig, Fyrr enn eg kunni hitta þig, Því muntu vernd mér veita, Eingvu óhægra er það þér, Að geyma það sem fundið er, Enn að óvísu leita, Guð minn! Guð minn! Sem myrkri eyddir, Ljóss til leiddir Lífs braut rétta, Lát mig ei aptur í dymmu detta.

7. Trygða féssjóð mér tærir þú, Trúar hond mín opt veiklast nú, Getur vídtekið valla, Aunast þú hennar orku brest, A þér lát hana fá sig fest Sterkliga æfi alla, Guð minn! Guð minn! Þér vil eg fús Mitt hjartans hús Til hvíldar veita, Auðmjúkum anda kannt aldrei neita.

8. Trúar augum eg tildra nú Til þín, Drottinn! mig aumka þú, Overdugum best bjarga, Oforþént miskun er rétt náð, Omakligum sem verður tjáð, Og gefin opt þeim arga, Guð minn! Guð mínn! Heill mín er Þá oll í þér, Því ortugg blífur, Greidist þér gott lof, Guð eylífur! Amen.

# 43. Sálmur.

Um dagliga umþenking daudans.

Lag: Í blæu einni er byrgdur í mold.

Væntu æ daudans, vinur kær! Vonum framar hann stendur nær, Við hvern dag þenki hugurinn þinn, Hann mun vera sídasti minn.

2. Hvad sem þú gjörir hura ber, Hvert svoddan ydja hæfdi hér, Ef í því verki ættir þú Andast þá strax og dæmast nú.

3. Lífi fékkstu ad láni nád, Lífs hefur þú ei eignar rád, Nakinn komstu í heiminn hér, Hédann eins líka aptur fer.

4. Á hverjum deigi deyr þú hér, Daudann hver lífs-stund færir þér, Allt hvad hér eykst vid æfi manns, Allt kortar þad lífdaga hans.

5. Þess lengur sem vær lifum hér, Lífid þess styttra eptir er, Um þad sem einum áfram bar, Eptir því minna leidar var.

6. Lát frá þér deya lesti fyrst, Lífid ádur enn fær þú mist, Hver sem deyr vondum vilja frá, Víst lifir Gudi í dauda sá.

7. Adam gamla af öllum mátt Á medann lifir deyda átt, Þá mun Drottinn, nær deya fer, Dásamligur lifa hjá þér.

8. Daudinn flytur og færir mann Frá hégóma í himna rann, Í hverja átt sem eikin datt, Er hún þar kyrr, þad trúi eg satt.

9. Ef þú íhugar opt og þrátt, Ad endiliga deya

átt, Adhald er þad og orsök þér Ad akta lítt þad sem heimsins er.

10. Athuga þú hvad andlát manns Afmyndad gétur limi hans, Þetta skyldi þig fæla frá Forbonnud verk ad girnast á.

11. Sál og líkama svídur þad, Sann-naudug verda skiljast ad, Andarslit hver sem athugar, Elska mun sídur syndirnar.

12. Sá sem med vondri syndagjörd Sér hefur stofnad andar mord, Í gégnum daudann gengur hann, Í glotunar stad þó eylífann.

13. Þeir einir hljóta himna vist, Hér nú lifa í Gudi fyrst, Þeirra líf Drottinn eflaust er, Í trúnni sem hann binda sér.

14. O, Drottinn! géf oss öllum nú Innlífast þér med sannri trú, Líka deya og lifa þér, Lofa sídann med engla hér, Amen!

## 25. Sálmur.

**Huggun fyrir þá, sem missa sína ástvini.**

*Lag: Hædsta hjálprædis fögnudi.*

O, kristin sál! umhuxa fyrst A dauda stundu Jesúm Krist, Þvíad ógn daudans aldrei kann Ofbjóda þeim, sem þenkja um hann.

2. Beiskt vatn í mara mjög sætt var, Þá Móises tréd í brunninn bar, Þad lífsins tréd er Drottinn dýr, Sem daudans remmu í sætleik snýr.

3. Sá edla kvistur, allra bót, Upprunninn er

af Jesse rót, Hver sem geymir hans heileg orð, Hann smackar aldrei sálar morð.

4. Eymd mannsins deyr en ecki hann, Er dauðinn leið í himna rann, Afgángur hans er endíng kífs, Og fæðíng holl til eylífs lífs.

5. Ecki missum vér ástvini, Undann oss þó þeir sendir sé, Fyrir sorgir þeir fögnuð fá, Frá myrkrum inn í ljósið gá.

6. Yfir lífdaga hættast haf, Í hösn dauðans þeir komast af, Leystir frá allri sút og sekt, Syrgja skulum þá ecki frekt.

7. Hvítann skrúða við Herrans hlið Hafa þeir nú og pálma við, Sorgar klæði ei sómir þá Fyrir svoddann menn að taka uppá.

8. Öll hefur þeirra augna tár Af þurkað Drottins hendin klár, Lambsins stóli þeir lifa hjá, Ljómandi syngja gloría.

9. Allskyns hljóðfæri hljóma þar, Hörpur slándi gulligar, Hjá englum Guðs sér una þeir, Ecki skulum þá gráta meir.

10. Láttu þér ecki gremjast geð, Guð þó taki hvað hefur oss léð, Ef þú missir þinn ástkærann, Einn elskara snart finnur hann.

11. Alít það ei þó aðskiljið, Athuga framar samkvæmið, Sem eptir kémur eylíft þó, Í andvaralausri sælu og ró.

12. Andlát sitt virdir ábatann, Upprísunni sá trúa kann, Hverrar íminðan augljós er, Eðlis skapníng í heimi hér.

13. Eydist heims ljós ad aptni dags, Upprennur þó ad morgni strax, Grasid visnar þá vetrar ad, A vorinu aptur blómgast þad.

14. Af eikum falla ávextir, Aptur þó vara blómligir, Og ef sædid skal frjófgun fá, Fyrst í jerdunni rotna má.

15. Þá Phænix hefur æfi endt, I eigin hreidri sig sjálfann brennt, Af ösku kvikna aptur þar Ungur med fjadrir gulligar.

16. Svo endurnýast allskonar, Eigin foreydslu þad sem bar, Aldrei skyldi neinn efa þá Upprisu holdsins dómsdag á.

17. Þú meintir kann ské ment og fé, Mektast hefdi þinn ástkæri, I Guds ríki audugur hann, Alla speki vel skynja kann.

18. Hædsta tign þó hér hefdi gist, I himnaríki er betri vist, Drottni hefur svo þóknast þad, Þinn vilji skal þar hnegjast ad.

19. O, Drottinn! þú tókst aptur nú Eign þína, sem mér lédir þú, Þitt nafn, heilagi Herra klár! Hædst sé lofad um eylíf ár! Amen!

## 45. Sálmur.

### Um þann sídasta dóm.

**Lag: Tak af oss, Fadir!**

Þá Kristur kémur, Kóngur réttdæmur, Allt augljóst verdur, Ord, hugun og gjördir, Alla uppvekur, Er þeim hefnd-frekur, Sem dóms er sekur.

2. Á allar sídur Ogn þeim ofbýdur, Undir eldgángur, Yfir Gud strángur, Samvitskan særir, Satan ákærir, Synd fridtjón færir.

3. Hvar mun þá hæli, Herra minn sæli? Eg veit mig argann Unnid hafa glæp margann, Eg óttast dóminn, Uti er tíminn, En eylífd kominn.

4. Her himins hjadnar, Hrynur og brádnar, Sig samann lyknar, Sól rodnar, túngl bliknar, Þín verk ei þordu Þig sjá í dýrdu, Er eckért íllt gjordu.

5. Eg aumur madur, Of mjeg saurgadur, Hvad mun þá þora Þig reidann ad heyra? Hvert má helzt flýa? Hvad skal þá segja? Hver veit ad vægja.

6. Þú Herrann hýri! Hædsti dómari! Mér munt ei mýja, Má eg því til þín flýa, Þú þoldir dauda, Þinna svo sauda Bættir bøl nauda.

7: Þig son sinn sendi, Sinni af hendi, Fadirinn frídi, Ad fridkaupa lýdi, Er því ógladur, Ef nockur madur Tínist tapadur.

8. Víst vill hann eigi, Eg vesæll deyi, Herra! þad heyrdu, Hans vilja fullgjørdu, Lát ei erfd þína Eylíft bøl pína, Aumka ønd mína!

9. Lægd løgmáls frekann Lýsir mig sekann, Þinn munnur medann Mig kallar blessadann, Þad má mér meira, Mun eg þó heyra Fridar bod fleira.

10. Eg er óhræddur, Í þér nád-gæddur, Þó óvinir allir Yfir mér hefnd kalli, Þú fridar-fórnin! Frelsar þín bornin, Vor heill og vornin!

11. Þú Herra hlýdinn Helgadir lýdinn, Létst lífid æda Til lausnar oss útblæda, Veit vægd í

dómi, Vor bródir frómi! Þitt hædst lof hljómi! Amen!

## 46. Sálmur.

### Um þad, hverninn mann skal lánga eptir eylífu lífi.

Lag: Þá linnir hér mín likams vist.

Ei máttu, sál mín! elska dátt Of-fallvalt lífid þetta, Med helgri girnd í hædir hátt Heldur skalt þér upp-létta, Þar er æska en elli stzt, Einginn daudi, og lífid víst, Og ángurlaus unun rétta.

2. Utvaldir skína eins og sól, Englum Guds næsta líkir, Ofsjúkir hafa eylíft skjól, Allskyns nægd mettast slíkir, Drottinn Gud fullur dásemdar Dryck-jar þá straumum vellystar, Inbyrdis elsku-ríkir.

3. Eylíf-gædi eru svo stór, Enginn kann þau ad mæla, Og svo dýrmæt, ad engum fór Uttala né nóg hæla, Ovollt heilbrygdi æ er þar, Unun og nægd Guds vellystar, Og frábær fagnadar sæla.

4. Svo gódur hlutur enginn er, Sem einn Gud himna hæda, Inndæli mest þá alla sker, Sem eign-ast hann og vidræda, Oss í honum og hann í oss, Hýrann sjáum þad gledi hnoss, Er rótin allra gæda.

5. Jerúsalem þar uppi er, Eckert musteri hef-ur Med hondum gjort, né sól þar sér, Sízt túngls þar þorfin krefur, Hennar musteri og byrti best Er blessadur Gud, sem ljómar mest, Og upplýsíng ollum géfur.

6. Eins sem ei heyrdist arar hljód, Þá upp var verid ad smída Jerúsalem á jordu stód, Jafnt mun og hinni lída, Þeir andligu steinar eru hér Med eri mótlætis kautadir, Sem hennar bygging hlýda.

7. Drottníngin sú, sem sókti heim Salómon kóng hinn ríka, Er sonn fígúra sálum þeim, Sem koma í hollu slíka, Gimsteina hver og gullid ber Gódra dygda sem framdi hér, Engla fylgd fær hún líka.

8. Kóngsins spekt hana furdar frekt, Og fjøldann dýrstu rétta, Dýrmæt klædi sem mestu mekt, Og musteris prýdi setta, Í forundran svo segir sú, Sízt var þess von med minni trú, Gæti eg gripid þetta.

9. Hér máttu, sál mín! heyra og sjá, Hvad Drottinn vill þér veita, Ef þú girnist hans húsum ná, Heilagliga skallt breyta, Andligs góda ef væntir víst, Veraldar gædum ættir sízt Med ákéfd eptir leita.

10. Ef þú girnist ad audvist þér Af lífsins tré þig metta, Rádu Christó í heimi hér, Hrein trú má orka þetta, Inn í Guds hús kann ecki ná Ótukt, manndráp, heipt, lygi, þrá, Né fánýt girnd fédráttar.

11. Heilog þrenníng! med hollri nád Hjartad mitt virdstu byggja, Á mér hafdu allt eignar rád, Aldrei lát mig þig styggja, Géf mér hér smacka farsæld fyrst, Fyll mig sídar þíns húss vellyst, Svo meigi eg þér lof til leggja.

## 47. Sálmur.

Um þá farsæld, þegar madur fær ad sjá og skoda Gud í eylífu lífi.

**Lag:** Ad ydka gott med æru.

O, Drottinn alls valdandi! Eg vil gjarnann til þín ná, A lifandi manna landi Lát mig nægd þíns góda sjá, Nær eg þig Næ ad finna, Neidar stig Mun þá linna, Langar mig Heim til húsa þinna.

2. O! þann fögnud frábæra, Fögnud allann sem gnæfir, Nær mun audnast sú æra, Ad sjá Gud minn sem býr í þér? Þíns húss sjá Sælu rétta Svánga má dryckja og metta, Er þér hjá Eylífs lífs uppspretta.

3. O! þú líf æskiliga, O! þú blessud farsæld blíd, Þar heilög brenníng hæga Hjartans girnd fyllir alltíd, Ad líta Krist, Ljómann bjarta, J lífsins víst Hjá honum skarta, Gnæfir mest Girnd alla vors hjarta.

4. O, Jesú! elskan blída, Edla bidill sálar mín, Nær ætlar þú innleida, J þín kóngs sal brúdi þín? Hvad vantar J efstu hollum? Ecki þar Né hætt vid föllum, Gud er þar Sjálfur allt i öllum.

5. Er þar Gud allra besti, Augum vorum prýdi ný, Húnángs seimur sætasti, Saungur fagur eyrum í, Balsam kær, Best sem skarta, Blómstur skær, Mjúk ad snerta, Hver þar fær, Hvad hans girnist hjarta.

6. O! dásrída ásjónu, O! sæla reddu Lausn=

arans, Dýrdar krýndur kórónu, Kær draup nád af vorum hans, Fyrst hann er Allt í öllum, Upplýser, Varnar föllum, Fridinn tér Konum jafnt sem köllum.

7. Gud er sá ljóssins ljómi, Ljós í hverjum sjáum vér, Það er vor sæmd og sómi, Ad sjá hann í sjálfum sér, Lockar mann Líf indæla, Lofa hann, Og vid mæla, Aldrei kann Ad úttalast sú sæla.

8. O! farsæl borgin besta, Blessud hollin uppi þar, Heimili heilagasta Háleitrar Guds þrenningar, Nær mun ný Nád sú gledja, Nái eg frí Mig þar sedja, Og Gudi í Gud sjálfann tilbidja.

9. Nær mun sú sólin renna, Sem uppljómar þessa borg? Nær mun eg fá ad finna Fögnud þann ei snertir sorg? Sála mín! Sjá þau mæti, Sæl þú skín Í eptirlæti, Arfleifd þín, Er Gud Drottinn sæti.

10. Vér lifum Gudi lifanda, Líka erum kyrkja hans, Vér eigum hann hér í anda, En þar ad raun rétt til sanns, Sælu ad Sjá margfalda, Samastad Lífsins halda, Gefi oss þad, Gud um aldir alda! Amen!

## 48. Sálmur.

**Um þad allra astúdligasta samlag, sem vér skulum hafa vid heilaga engla í eylífu lifi.**

Lag: Mikillri farsæld mætir sá.

Eylíst lífid er æskiligt, Ecki neirn giptist þá, Engl=

um líkir í œdstu mekt, Eigum vér Guþ ad sjá, Vitska, tign, dýrd og virdíng manns Vegsamlig mjøg þá er, Svo aldrei kunni hjartad hans Hana ad skynja hér, Inndælid er þad allra mest, Auglit Drottins ad skoda best, Alla blessun þad undir býr, Alla heill, dýrd og nád, Allt eptirlæti ad oss snýr, Allt batnar þá vort rád, Allt andstreymid svo á burt flýr, Aldrei snertir oss þad.

2. Ei er farsældar framar von, Enn frídann Gud ad sjá, Þessi hin fagra fridar sjón Fyllir girnd alla þá, Engla umgeingni ødlumst þó, Ástúdlig verdur sú, Samlíkir þeim í sælu og ró, Sannheil-agri enn nú, Hvítum skrúda svo skrídumst vær, Skín-andi Lambsins stóli nær, Syndanna slíkum færdir af, Fríliga lofum þann, Hjálprædis klædid gott oss gaf, Gledjandi réttlátann, Vakni sá upp í syndum svaf, Sjái dýrdar ljómann!

3. Enginn áreitir annann þar, Enginn kann reidast þá, Ei er þar brunnur illgjørdar, Enginn metnadar þrá, Engin mótlæting, eymd né fár, Ydrunar tár ei nein, Ei heldur daudlig synda sár Sálum vinna þar mein, Húngur og þorsti horfinn er, Af Herrans elsku mettumst vér, Utvalda Drottins aldrei þá Of-hiti skada kann, Yfir þeim heldur hendi sá, Himneskann byggir rann, Af lífi þeirra sem ljómar á, Lifandi vatn framm rann.

4. Utvøldum Guds svo gledjist géd, Gésta-bod er tilreidt, Klára vín, feiti, mergur med, Mun þar til rétta veitt, Svoddan veitslu vér sitjum ad

Sælir um eylíf ár, Og lof syngjandi bekkum bað, Þá verdur gledin klár, Alt mun þetta þá uppfyllast, Í anda og sannleik fullkomnast, Líf og andi Guds ordid er, Otti daudans þá flýr, Hann var svelgdur í sigur hér, Sjá hans broddur er rír, Öll vor augna tár af þerrir, Angri í gledi snýr.

5. Hrygdarlaus gledi hljómar þá, Heilsa mótlætis frí, Lífid án mædu, ljós ei fá Lystigardi þeim í, Aldreigi folnar elskan þar, Aldreigi gledin dvín, Enginn madur þar andvarpar, Engvann snertir þar pín, Yndis hægd er þar ollum téd, Andvaralausri sælu med, Andvaralaus hin rétta ró, Rósamligunun mest, Unnnarsamlig farsæl fró, Farsæl eylífdin best, Eylífbrenningar eining þó, Eining guddóms þar sést.

6. Upp upp, mín sál! athuga nú Æru og vegsemd þá, Sem ockur er vís þá eg og þú Erum Guds stóli hjá, Ockar vardhalds engil þann, Er hér nú stýdur vid, Þá munum gjorla þeckja hann, Enn þurfum hans ecki lid, Er þá samkvæmis unun stór, Alskínandi í dýrdar kór, O, Jesú! kom og ei vid tef, Innleid í sælu þá, O, Jesú! kom og gledi géf, Guds húsum lát oss ná, O, Jesú! þig fyrir utan ef Um eylífd géf oss ad sjá! Amen!

## 49. Sálmur.

**Um þær feikna kvalir, sem þeir fordæmdu verda ad lida í helviti.**

Lag: Gud oss lærdóm sinn ljósann gaf.

Hver kristin sál þad hugleidi, Hvad vítis píslir

bitrar sé, Svo stendur betur syndum mót, Segjandi opt af hjartans rót, Þ frá andar deyd oss bevari Gud.

2. Þ helvíti er alls ills nægd, A ollu gódu mesta óhægd, Obæriligur hiti hnár, Heljar nístandi grimdin sár, Þ frá andar deyd oss bevari Gud.

3. Myrkur og svæla sífeldlig, Sorg og djøfla mynd ófrín mjeg, Op og ýlfranir eylífs veins, Andstyggilig lyckt brenuisteins, Þ frá andar deyd oss bevari Gud.

4. Ormur samvitsku etandi, Otti, þurkur, sveingd, harmkvæli, Ofund, hatur, víl, ørbyrgd mest, Engin gód von med heilsu brest, Þ frá andar deyd oss bevari Gud.

5. Sól og túngl enginn sjá þar kann, Sízt af ollu þó Gud sjálfann, Sú litla skíma eldi af Engva hug-hægd fordæmdum gaf, Þ frá andar deyd oss bevari Gud.

6. Maginn í húngri mædist mest, Munnur af þorsta píníst vest, Elds loginn verkar óp og kvein, Innlæsist hann í merg og bein, Þ frá andar deyd oss bevari Gud.

7. Af einum neysta í eymdar glód, Olídanligri pína stód, En þó kvinnu hér kynni sár Kvelja jódsótt um þúsund ár, Þ frá andar deyd oss bevari Gud.

8. Sælgæti øls og matar mest, Margur af hverju héllt sig best, Hugfrói þeim þad enginn er, Ei fá vatns drópa ad svala sér, Þ frá andar deyd oss bevari Gud.

9. Dýrmæt klædi og metord med Minnst kunna

þá ad hugga géd, Iklæddir skomm um eylíf ár, Engin vegsemd til boda stár, I frá andar deyd oss bevari Gud.

10. Andur stodar þá ecki par, Allir jafnsnaudir finnast þar, Guds blída auglit aldrei sjá, Ollu þyngra þad liggur á, I frá andar deyd oss bevari Gud.

11. Kvala eldinn um eylíf ár Uppblæs Guds reidi stórmur hár, Samvitsku ormur innra slær, Ytra djoflanna grimd frábær, I frá andar deyd oss bevari Gud.

12. Hata fordæmdir hver annann, Hata þeir líka Gud sjálfann, Hata þeir engla heilaga, Hata þeir alla útvalda, I frá andar deyd oss bevari Gud.

13. Oll ólucka, sem innast má, Oll slæst í eitt og plágar þá, Alla varir þad eylífd þó, Aldrei finnandi vægd né ró, I frá andar deyd oss bevari Gud.

14. Minnsta korn þá af minnstu kvol Er miklu þyngra enn allt heims bol, Og þó od Adams arfarnir Allir skipti því jafnt med sér, I frá andar deyd oss bevari Gud.

15. O, Drottinn! géf oss ollum þad, Ad þeinkja svo um kvala stad, Ad þángad komumst aldrei vér, I varfærni framgaungum hér, I frá allri neyd oss til lífs innleid!

## 50. Sálmur.

**Um þad, hverninn eylífliga munu vara þær helvíztku kvalir.**

Lag: Miskuna þú mér, mildi Gud!

Ef þú, kristin sál! athugar, Ad píslirnar Eylífar

eiga ad vera, Því betur lærir þar af þú Ad þeinkja nú, Hvad þúngt sé þær ad bera, Helvíti heitt Hugg-un fær eydt, Pad bitra bál, Brennandi sál, Alla tíd á ad vara.

2. Fordæmdra líf í eldi þá Er daudi sá, Ær er yfir hángandi, Peirra daudi líf einninn er, Sem aldrei þver, Í kvolum ósegjandi, Brenni-bodlar Preytast síst þar, Aukandi kvol, Ofan á bol, Med allskyns eymd og grandi.

3. Hvad er það mann kann þýngra ad þjá, Enn þad sízt fá, Er hann mest eptir lángar? Enn hitt umbera verdur víst, Sem vildi sízt, Plágur og píslir strángar, Alyktad er, Ad sá sem hér Síſyndga vann, Sárt hefnda bann Ei skuli af honum gánga.

4. Tapadir safna syndum sér, Um alla hér Eylífdar æfi sína, Um Guds eylífd þeir þvíngast. Því Peim píslum í, Sem aldrei eiga ad dvína, Hans gæsku Géd, Og miskun med, Utslecktu þeir Í sér því meir, Kvelur þá kvol og pína.

5. Peir elskudu aud óþarfann, Of-fallvaltann, Vellyst og virdíng bædi, Himneskum féſjód sinntu sízt, Sem er Gud víst, Ei girntust andlig gædi, Skamvinn lífs lyst Leidist þeim sízt, Hrapandi því Helvítid í, Eylífa eymd og mædi.

6. O! þú eylífd óendannlig! Enginn kann þig Ut sjá né nóg ad grunda, O! hvad mikid þú eykur á Alla písl þá, Tapada hlýtur henda? Nær ára stund, Otal þúsund, Umleid óhast, Onnur byrj-ast, Svo gengur án alls enda.

7. O, þú eylífd, ó, eylífd þú! Ein ertu sú,

Sem mest kann mein ad vinna, Fordæmdra písl er þungbær þá, Því heita má Bitur og beisk ad finna, Þó þýngri er, Því margfeld skér, Allra þýngst þó, Þad undir bjó, Ad hún skal aldrei linna.

8. O, þú daudi! sem aldrei deyr, Endíng þín er, A ný þig uppbyrjandi, Daudann girnast fordæmdir fá, Fyrrist hann þá, Líf trú eg lángt frá standi, Aumt hel-þad er, Sem aldrei þver, Og Lífi því Ad lifa í, Sem alltíd er deyandi.

9. O, þú bauvæna auma líf! Ef þú ert líf, Því villtu þá svo deyda? O, þú lifanda auma hel! Ef þú ert hel, Því villt ei lífs eymd eyda? O, eylíf tíd! Illum mjög stríd, Ad þeinkja til þín, Er þýngri pín, Enn annad allt sem lída.

10. O, sál mín! sál mín! sjá ad þér, Sárheit písl er, Opt er þad athugandi, Nádar-tímanum géf ad gaum, Gjer ydran aum, Eymd slík svo aldrei grandi, Sá syndum sér Safnar tídt hér, Þess meira bál Brennir hans sál, Elds mat svo áleggjandi.

11. O, Drottinn Jesú! Herra hýr, I hædum býr, Synda bótin sanna, Fullu borgandi fyrir oss, Festur á kross, Líf, heill og lausnin manna, Ljúfur líkn svn, Leys oss frá pín, Illt andar bol, Eylífa kvol Oss láttu aldrei kanna.

12. O, þú rétt nefndi gódi Gud! Sem glotudum lyd Sendir þinn Son í heiminn, Oss ad leysa frá andar deyd, Og allri neyd, Sé þér dýrd sögd og framin! Og þér, Jesús! Sem frelstir fús, Guds Anda med Gofgun sé téd, Um aldir alda, Amen!